Eñ þad skalltu vita/ ad þuilijka Ovine
kantu ecke med Vggaleysenu ad yfervin
na/ hellour med sijfelldre Baraattu. Þi
nar Lijfstunder eru Baraattu stunder/ og
þa verdur þu sem allra mest asoktur þa
þu piñur til sem minsta Asokna. Þeg
ar þier þinst so sem ad þu hafer Frid fyr
er þessum Ovinum/ þa eru þeir sem mest
tugaster a mote þier. Vilier þu sofa/ þa
vaka þeir. Hwer þu þig ecke til motsto
du/ þa bwa þeir sig til asoknar z skada.
Marger þreytast og giefast vpp a Veig
enum fyrr enn þeir fa nad jñ j Foduꝛ
landed. Huad marger af Israels Soñ
doou j Eydemorkuñe/ huorier ei feingu
ad odlast þad Fyrerheitna Landed? Nu
ad marger andleger Abrahams Syner
tortynast j Eydemørku þessa Lijfs/ adur
eñ þeir fa ad odlast þa fyrerheitnu Aif
leyfdena a Himnum? Eingeñ Hlutur
kañ betur ad vppvekia oss til ad hrinda
j burtu þra oss Vggaleysenu/ helldur eñ
þad/ ef vier hugsum om/ huad fæꝛ þeir
eru sem stoduger standa allt til Æfeloka.
Lætum oss þar fyrer langa til þeirrar
Him

Himneſku Dyrdareñar. Tokum oſſ hryg
giaſt þar af/ ad vier hoſum hana eñ nu
ecke medteked. Tokum oſſ ſo vera athu
gaſama þar vm/ ad miſſa hana ecke apt
ur/ ad vier hoſum af ongun odru Fogn
ud/ eñ af þui alleina/ ſem oſſ hialpar til
heñe ad nꝏ.

Huar til ſtodar þad þo Madur Gled
ieſt vm ſtundar ſaker/ eþ hañ verdur þar
a mot ad hryggiaſt vm alla Eilijfd?
Huorneñ kuña Meñ riettelega glader
ad vera j þeſſu Lijfe/ med þui ad aller ver
alldleger Hluter ſem oſſ kuña ad kiꝏta z
gledia/ þeir forganga og þrotna vm ſijd
er? Eñ hitt ſem hryggia kañ þuerrar
þo nie þrytur alldrei. Vier lifum ſo Vg
galauſt/ lijka ſuo ſem vier hefdum alla
reidu yferſtaded þꝏr hꝏttuleguſtu ſtund
er Daudans z Doomſins. Chriſtur ſeig
er hañ mune til Doomſins koma/ a þeir
re ſtundu ſ vier meinuꝫ ecke. Þetta ſeiger
Sañleiks Muñuriñ/ ecke einuſiñe/ helld
ur tuiſvar. Hyd þu þeſſu þar ꝥ/ og vert
vggande vm þig. Kome hañ a þeirre ſtu
ndu ſem vier meinum ecke/ þa er þad vijſt

ad ottast/ ad vier munum meiga verda kallader fyrer Doominn/ ecke so vel vidbw ner sem skyllde. Enn ef vier komum þann gad ovidbwner/ O Herra Gud/ huørnenn skulum vier þa þaa stadest/ þa straungu Dooms ælyktun sem þar mun ganga? Enn þui er þo so vared/ ad þeir sem tapa þar sijnu Mælefne a einu Augna blike/ þeir faa alldrei vppreisn vm alla Eilijfd þadan j fra. A einu stuttu tijma verdur wtklimad ꝫ alyktad þ s framm vid oss a ad koma vm þann oendanlega Eilijfdarenn ar tijma/ A þessum stutta tijma og Aug nablike verdur huør eirn og eirn dæmdur annad huort til Lijfsins eda Daudans/ annad huort til Fyrerdæmingar eda Saa luhialpar, Jaa/ annad huort til eilijfrar Dyrdar edur eilijfra Kuala.

O DROTTINN þu sem hefur giefed oss þijna Naad/ til ad vppbyria þad goo da/ gief þu oss og eirninn styrk/ so vier kunn um j þui hinu sama/ stadfaster ad standa allt til Afeloka.

XXX

Vm

# Vm þad/ Huørnenn Madur skal bera sig ad j þremsta lage/ ad br eyta epter Heilagre Hegdan og Framferde Christi.

Christi Lijþerne og Framþerde er sa fegurste Speigill z Fyrer myndan allra Dygda z Man̄ kosta. Oll Christi Hegdan/ er oss til vppfrædingar framsett. Marger vilia þaa ad nea Christo/ en̄ vilia þo ecke þ til vin̄a/ ad þeta epter hm̄ z hn̄s Fram̄ ferde. Þeir vilia haþa not af Christo/ en̄ ecke omak til ad haga sier epter hn̄s Lijþ erne. Læred af mier/ þui eg em Hogvær z af Hiarta lijtelatur/ seiger Endurlausn aren̄. Vtan̄ so sie þu vilier gioraſt Chri ſti Læresueirn/ og læra ad breyta epter hm̄/ þa kantu ecke rett christin̄ ad vera. Ecke a alleinasta Þijnā Christi ad vera Bitalingz þ þijnar synder/ helldr a z eir nin̄ Framferde Christi/ ad vera þier til Epterdæmis j allre þin̄e hegdan z hond lan. Þin̄ Elskuge er huijtur z raudur ad Lit/ Sinndu til þu stert og eirnin̄ Raudur

af medreiþingu Christi Bloods/ z huilkt
af hreiñe og pleckļausre Epterbreitingu
hans Framferdis. Huorneñ skullder þu
hafa elsku til Christum eþ þu elskar ei
hñs heilaga Framferde? Ef þier elsked
mig seiger Endurlausnareñ/ þa halldeð
miñ Bodord/ huar þyrer ad þeir sem ec
ke hallda Christi Bodord/ þeir eru hñ z
ecke helldur elskande. Christi allra hel
gasta Framferde er su allra mægiætasta
Lijfs Regla sem til er/ og huorke Fran
cisci nie Benedicti reglur/ sem Papistar
mest af hallda/ eru j nockurn mæta vid
þessa Regluna samlykiande. Vilier þu
vera Oska sonur z barn Guds Fødurs/
þa giættu ad hüneñ hñs eingieteñ Son:
hagar sier og hegdar/ Vilier þu vera
Samarfe Christi/ þa ættu ad breyta ept
er Christo. Sa sem vill lifa j Løstum z
illu Framferde/ hann hiñ same þionar
Dioþlenum/ Eñ huorneñ kañ sa ad ve
ra med Christo/ sem sig hefur gieþed j þi
enustu Diofulsins? Ad elska Synder og
Løste/ þad er ad elska Diofuliñ sialfañ/
þutad allar Synder eru af Dioþleñ ko
nnar

mnar/ Eñ huørneñ kañ ſa Christum ri
ettelega ad elſka/ ſem elſkar Diøpuliñ?
Ad elſka Gud/ þad er ad elſka heilagt Lif
ferne/ og Framferde/ þuiad allt heilagt
Framferde er af Gude/ huørneñ kañ ſa
þar fyrer ad elſka Gud/ ſem ecke elſkar
heilagt Lifferne? Elſkañ audſyneſt j ve
rkunum/ og þad er Art og Nattura riet
trar Elſku/ ad hun kiemur oſſ til/ ad ſtu
nda Gied hñs ſ vier elſkū/ og ad vilia og
meiga hid ſama/ ſuo ſem ſa vier elſkum.
Þar fyrer/ ef þu elſkar Christum riettele
ga/ þa muntu ſtunda til ad vera hlydeñ
hñs Befalningum. Þu munt z eirneñ
elſka heilagt Lifferne ſo ſem hañ/ og mu
nt endurnyaſt j Anda þijns Hugſkots/ ſo
þu hugſer vm þad Himneſka/ lijka ſem
hañ giorde.

Eiliſt Lif er þar jñe faled og vnder
þui komed/ ad vier þeckium Christum rie
ttelega/ eñ ſa ſem ecke elſkar Christum/
hañ þecker hañ ecke. Sa ſem ecke elſk
ar Litelæte/ Skijrlijfe/ Hogværd/ Spar
neytne og Kiærleikañ/ ſa elſkar ecke hell
dur Christum/ þuiad Christi Lifferne

var eckert aññad enn ſañarlegt Lijtelæte/ Skijrlijþe/ Nogværd/ Sparneitne og Ki ærleike. Chriſtur ſeigeſt ecke þeckia þa/ ſem ecke giora Vilia ſijns Himneſka Fø durs/ Þar þyrer þeckia þeir og ecke helld ur Chriſtum/ ſem ecke giora hans Vil ia. Eñ huør er Vilie Fødurſins? Nñs Vilie er vor Helgun.

Sa heyrer ecke Chriſto til/ ſem ecke hefur hans Anda/ Eñ huar ſem hans Ande er/ þar er hañ med ſijnum Aſtgiøf um og Avøxtum/ Eñ huørier eru Avex ter Andans? Þeſſer/ ſem er/ Kiærleike/ Glede/ Fridur/ Blijdleike/ Goodgirne/ Giæſka/ Trweñ/ Hoogværd z ſparſemi.

So ſem yþer Chriſto huñldeſt heilag ur Ande/ ſuo huñleſt hañ og eirneñ yfer øllum þeim ſem j Chriſto eru fyrer riel ta z ſaña trw/ þuiad Brwduriñ Chriſti geingur epter hans Sætleiks Jlman. Sa ſem helldur ſier vid Drottiñ/ hañ er eirn Ande med hønum. So ſem Holld legt eda Lijkamlegt ſambland Ecktama ns og Ecktakonu/ giører þaug bæde eitt Holld. So giører og ſo ſu andlega Sam

teing

teinging a millum Christi/ og eirnrar trwadrar Sœlar/ þaug bæde Christum og Sælena eirn Anda. Huar fyrer/ sa sem ecke skickar siinu Lijferne og Framfe rde/ epter Christi Lijferne/ hañ huorke helldur sier til Guds/og ecke helldur hefr ur hañ Christi Anda j sier bliifanda.

Mun þad ecke tilbærelegt/ ad vort Lijf erne liikest hans Framferde/ huør ed af Elsku til vor/ vard oss jøllu liikur/ ad fra tekeñe Syndeñe? Gud sem sig hefr open berad j Holldenu/ hefur oss giefed Form z Fyrermyndan christelegs Lijfernis med siinu eigenlegu Epterdæme/ suo vier kyñ um ecke þad fyrer oss ad bera/ ad vier hef dum eckert Form epter ad breyta/ añad eñ Holldsins Girnd z Vilia. Eckert Lijf erne er betra/ elskulegra eda rosamara þ Samviskuna/ eñ Christi Lijferne/ þui ad Christur er sañur Gud/ Eñ huad kañ ad vera Jñdællra edur Roosamlegra eñ sialfr Gud/ huør ad er sa hædste z yp parlegaste Goode? Heimsins z veralldar eñ Lijferne færer mz sier stutt jñdæle og glede/ eñ leid’ ept’ sig eiliifa hrygd. Hñi hellst

hellst sem þu lijfest/ og epter huorium sem þu breyter hier j þijnu lijferne/ þeim hinum sama verdur þu og eirneñ Lijkast ur j Vpprisuñe/ Breyter þu epter Christo j þijnu Framferde hier j þessu Lijfe/ þa verdur þu honum og eirneñ lijkur j Vpprisuñe/ eñ sie so/ þu lijfest Dioflenum j Syndeñe og Jllskuverkum/ þa verdur þu honum og eirneñ lijkur j eilijfum Kuølum epter Vpprisuna.

Sa sem vill mier epterfylgia (seiger Endurlausnareñ) hañ take vppa sig dag lega siñ Kross. Ef þu afneytar sialfum þier j þessu Lijfe/ þa þecker Christur þig fyrer siñ eigeñ Lim a Doomenum. Ef þu afneytar vegna Christi/ hier j þessu Lijfe/ þijnum eigeñ Vilia/ þijnum eigen legum Veg og Virdingu/ Ja/ og øllu þui sem þier kañ kiært ad vera/ þa mun Christur læta þig niotande verda sinnar Tignar/ siñar elsku/ og sijns Vilia j ødrum Heime. Audlest þu Hlutdeilld af Krossenum Christi hier j Heime/ þa ødlast þu og eirneñ Huggun og Hugsuolun j ødrū Heime. Lijder þu hier Offsokn j þessu

j þessu Lijfe/ þa fær þu rijkuglegt Verd kaup þar fyrer/ j everkomande Lijfe. Sa sem mig vidurkiener/ hier j þessum Heime(seiger Christur) hañ vil eg vidurkiena fyrer mijnum Himneska Fødur. Nu eigum vier ecke ad vidurkieña Christum alleinasta j þui ad hallda hans Lærdom saññ/ helldur og j þui ad breyta epter hans heilogu Lijfe og Framferde/ og so mun Christur vissilega þeckia oss fyrer sijn Børn a Deige Domsins. Huør sem afneytar mier fyrer Mønnunum/ seiger Christur/ hønum vil eg z so afneyta fyrer mijnum Himneska Fødur. Nu verdur Christo afneitad/ ecke alleinasta med Ordunum/ helldur myklu framar med illu og Ogudlegu Framferde/ Þar fyrer/ huør sem afneytar Christo med Verkunum hier j Heime/ hønum mun og Christur neita med siñe Dooms Alycktan j ødrum Heime.

Sa ma eingiñ reiknast fyrer eirn christeñ Mañ/ sem ecke hefur riettan og sanna Trw a Herrañ Christum. Nu jnnplantar riett og søñ Trw oss Christo/ hu

er ad er þad rietta Vijntried/ so sem ad ra Kuiste. Eñ huor sa Kuistur eda Gr ein a Christo/ sem ecke fœrer Avoxt/ þañ aphoggur og burtkastar sa Himneske Vijngards Herrañ. Eñ huor sem j Ch risto blijpur/ og j huorium sem hellst ad Christur byr fyrer Trwna/ hañ hiñ sa me fœrer mykeñ Avogst.

Kuistur er ecke j Raun og Sañleika jñplantadur j Vijntried/ sem ecke Dreg ur til siin Vokvañ wr Vijntrienu/ So er og ecke helldur nockur su Sæla jñplont ud Christo pyrer Trwna/ sem ecke dreg ur til siin þañ andlega Vokuañ Kiærlei kans wt ap Christo.

Giordu vort Framferde lijkt þijnu all ra helgasta Frampferde Herra Jesu Ch riste hier j Heime/ so ad vier mættum þi er pyllelega lijkiast/ j odrum Heime/ Amē

## XXXI
### Vm þad/ Huad þad sie ad afneyta sialpum sier.

Huor

HVor sa sem vill mier epter
fylgia/ hañ afneyte sialpum
sier/ seiger Endurlausnariñ.
Eñ ad afneyta sier so sialfū
þad er ad fra sier leggia El
sku til sialfs sijns/ þui su Elska sem vier
hofū a sialfum oss/ hun wtrijmer Guds
Elsku. Vilier þu vera Christi Læresuei
rn/ þa verdur þu þar til ad stunda/ ad
Root þeirrar Elsku/sem þu hefur a sial
fum þier/ vppvisne og wt ap deye i þijnu
Hiarta/ Þui eingeñ elskar riettelega
Christum vtan sa sem siakañ sig hatar.

Nema suo sie ad Kornsæded/ sem
nidur Sæest i Jordena/ Deye fyrst/ þa
kann þ ei Avøgst neirn ap sier ad færa/
Suo kantu ecke helldur Avøgst Anda
ns ad færa/vtann Elskann til sialfs þij
ns wt ap Deye medur fyrre i þijnu Hi
arta.

DROTTINN sagde til Abra
hams/ Gacktu wt af þijnu Fodurlande
og fra þijnu Ættpolke/ og wt af þijns
Fodurs Hwse/til þess Lands sem eg vil
þier til vijsa. Ecke kunne Abraham
Forfad

Forþader ad verda so merkelegur Guds Madur/sem hañ var/fyrr eñ þad hann hafde skiled sig vid sitt Fødurland/ So kantu ecke helldur ad verda riettur z sañ ur Christi Læresueirn/og eirn riett and legur Guds madur/vtañ þu ganger fra þeirre Elsku/sem þu hefur a sialþum þ er. Jacob þegar hañ glymde vid Eing eleñ/ þa vard hñ aþ hans sterku Atreck um halltur a ødrum Fætenum/ eñ añar Footurñ var heill og hraustur. Fyrer þe ssa tuo Fætur Jacobs þydest og merkest su tuoþallda Elska/ sem er elska til vor sialfra/og Elska til Guds. Þa ed fyrsta nær Madur Guddomlegre Blessan/þeg ar hañ er halltur a Fæte siñar eigenleg rar Elsku/Eñ hiñ Footuriñ Guds El sku er heill og ohindradur. So sem þier er omøgulegt med sama Auga ad lijta vpp j Himeneñ og nidur a Jordena vnd er eins/ So kantu og ecke helldur med et num og hinum sama Vilia/þig ad elska vm fram alla Hlute/og Gud j Himnen um. Elskañ er eirn sa beste Hlutur sem Salueñe er giefeñ/huar fyrer hun heyr er

er til med riettu Gude einum/ sem er sa allra ædste og beste j bland allra Nluta. Þijn elska er so sem þiñ Gud/ þuiad þu ad sem þu elskar ollu ødru framar/ þad hid sama giører þu ad þijnum Gude. Þad sem þu elskar ollu ødru framar/ þ virder þu og eirneñ fram yfer alla adra Nlute/ Nu er Gud alleina sa sem yppar legre er og ædre øllum Nlutum/ Nuar sy ter/ sa sem elskar sig sialfañ mest/ hañ gi ører sig ad Gude/ huad hid sama er hin suÿuirdelegasta Skurgoda Dyrkan. Þad sem þu elskar allra mest/ og jnnileg ast/ þad virder þu og metur fyrer suo dyr mætañ Nlut/ so sem aller adrer Nluter mætti vera hønum vndergiefner og þio nande. Nu er þuilïkur suo ypparlegur Nlutur eingeñ añar eñ Gud alleina. Si adu þar fyrer til ad þu elsker ei sialfann þig vm fram allt/ so þu giører ei Gud af þier. Gud er Vpphaf og Endung allra Nluta/ þar fyrer a Elskañ med riettu ad vppbyriast hia hønum/ og Endast hia hønum.

Guds eigenleg Vera er fraskilin fra

 øllum

fra ollum ødrum ſkøpudum Skiepnum/ Þuiad Gud hefur fra eilijfd vered j ſia lfum ſier þad hañ er/ þar fyrer a þijn al varlegaſta elſka ad vera fra ſkileñ og ſne idd fra ollum ødrum ſkøpudum Skiepn um. Eirnnar og ſømu Tegundar ſem þijn Elſka er/ ſømu Tegundar eru þijn Verk og eirneñ. Ef þijn Verk fram ko ma af riettre og ſañre Trw og Elſku til Guds/ þa eru þaug Gude þeck og mykels verd j hñs Auglite/ þo þaug ſieu lijt els verd og fænyt reiknud/ fyrer Mañ ña Augum. Eñ kome Verkeñ þijn af þeirre Elſku ſem þu hefur til ſialfs þij ns/ þa er omøgulegt þaug kuñe Gude ad þocknaſt. Elſkañ ſem Madur hefur til ſialfs ſijns/ hun fordiarfar og ſaurgar/ lijka vel þaug beſtu og ypparleguſtu Ve rk ſem hañ kañ af ſtad ad koma.

Þegar Chriſtur var ſtaddur j Hwſe Simonar/ þa kom þar fram ein Kuiña huør ed ſundurbraut eitt Kier fullt af dyrmætu Salve og ſmurde þar med Chr ſti Hofud/ Þad heñar Verk ſyndeſt lijt els verdt/ eñ ſamt var þad Guds Syn e þockn

þocknanlegt/ þuiad þad kom fram af riettre og sañre Tru/ af omeingudum kiærleika og Jdrande Hiarta.

Fornfæringarnar voru Gude þægt verk j gamla Testamentenu/ Eñ samt sem ádur kuñe þ verk ecke Gude ad þocknast Þegar Saul Kongur tok Herfang fra Amalechitarum/ og ætlade þ til Fornfæringar Drottne. Eñ Ordsøk þar til ad Drottne þocknadest þad ecke/ var su/ ad þesse Asetningur Sauls kom ecke fra añ af riettre Elsku til Guds/ þuiad hefde hañ elskad Gud riettelega/ þa hefde hañ ecke forackttad Guds Bod z Befalningar/ z hm̃ þo befalade ad vpp breña allt þ Herfang/ eñ offra þui ecke. Enn Saul Kongur elskade sig sialfañ fram" eñ Gud/ z villde audsyna syna eigiñ Gudræckne j þessu offre sier til Hroosunar.

Elskañ er so sem nockurskonar Ellddur/ þuiad so syngur Guds Heilog Christne j Psalmenum.

Kom þu goode H. Ande/ vppfyll Hiartu þiña Truande/ Og breñande Elsku þyna j þeim vppkueikiande/ z c.

Ellds Loginñ helldur sier ecke nidur vid Goolfed eda Jørdena þestum/ helldur leitar hañ og leggur vpp j Lopted/ Eins á þíjn Elska ecke ad hallda sier nidur vid þig/ helldur leita vpp j Hæðernar/ til Guds þíjns Skapara.

Ad aþnetta sialfum sier/ heiter þad z eirneñ/ ad leita sialfum sier øngrar Dyrdar nie Vegsemdar. Þeim yppasta Gooda/ sem er Gud sialfur tilheyrer og eirneñ hin hædsta og ypparsta Vegsemd. Sa sem leitar siñar eigeñ Lofdyrdar/ hñ kañ ecke ad leita Guds Dyrdar/ So sm Endurlausnareñ sagde til Phariseaña Nuørneñ er mogulegt/ ad þier kuñed ad trwa/ þar þier leited ydur sialfum Hroosunar og Vegsemdar/ huør hia ødrum? Hugleid þu Epterdæme Christi/ z fylg þui epter. Hañ vottar opt og tijdum vm sig/ Ad hañ leite ecke siñar Dyrdar/ hñ þigge ecke hroosun nie Vegsemd af mønunum/ og hañ sie aþ Hiarta Lijtelaatur. Þu medtekur allar þær goodar Gaafur/ sem þu hefur af Guds Hende/ þar þyrer attu ad tilreikna þær og eirneñ Gude/ og

t giefa honum Drydena/ eñ þier ecke.
Af þessum Giæsku bruñenum/ wtþlio ta Tæker allra goodra Hluta/ þar þyrer eiga þeir somu Tækerner til Giafarens ad reña/ þad er/ Guds Giæsku ad vera til teiknader og heimfærder med Þacklæte. Þaug Gros eda Bloomstur sem kallast Solsequia/ þad er Soolfylgiendur/ snua sier ætijd epter Sooluñe/ aþ huorre þau taka siñ vogst og Bloomgunar Vokua j huorre hellst ætt sem Sooliñ er. So byriar þier og lijka/ ad snua ollum þijnū Gæfum og allre þiñe Vegsemd ad Gude/og vidurkieña/ad þu hafer af honum allt þad þeiged/eñ eckert af sialfū þier/ Være þad nockud þu heþder af sialþum þier/ þa hefder þu vel Ordsok til ad lei ta þier Loþstyrs/ og tilreikna þier þijn ar eigenlegar Gæfur/ Eñ med þui þad er eckert/ helldr alleinasta af Gude/ þar þyrer ætku ecke þiñar/ helldur Guds veg semdar alleina ad leita. Su Vegsemd sem Madur sialfum sier tilreiknar/ snyr Mañe þra Gude..
Epterdæme hofum vier þar til a Na

Bogodonosor Konge/ huør ed sagde/ Sta
er su megtuga Babilon/ huøria eg heft
vppbygdt til eins Konglegs Hwss j mij
nu Rijke/ j Styrkleika minar Magtar/
og mier til Lofstyrs og Vegsemdar. Eñ
huørneñ foor þad sijdañ fyrer Nabogo
donosor? Þad avijsar Skripteñ/ so seig
iande. Aadur eñ Kongureñ hafde þesse
Ord wttalad/ þa heyrdest Raust af Him
num/ Þier verdur sagt Nabogodonosor/
ad Rijkis stiorneñ er fra þier tekeñ/ og
þu munt verda wtrekeñ fra øllum ødrum
Mønum/ so þu bwer j hia Villudyrum
wt j Mørkeñe. Eins fer þad og so/ vi
lier þu byggia þijna andlega Babilon/
þad er þijn eigenleg Goodverk sialfum
þier til Hroosunar/ Eñ ecke Gude allei
na/ þa verdr þu wtrekeñ fra Guds Aug
lite/ og hans H. Eingla.

Þad heiter og eirneñ ad afneyta sialf
um sier/ ad yfergiefa siñ eigeñ Vilia/ z
hlijda honum ecke og breyta ecke epter
honum. Oss byriar besta Vilia allra he
list ad hlijda. Nu er Guds Vilie ætijd
hiñ beste/ þar fyrer eigum vier og helst
epter

epter honum ad breyta. Hans Vilia ber oss hlijdugum ad vera/ aþ huørs Hende vier medtokum allt þad gott sem vier hofum. Nu kiemur þad allt saman all eina af Hende Drottins. Hans Vilia er skylldugt vier hlijdum/ sem oss vill leida til Lijfsins og til alls hins gooda. Enn þad sama giorer Vilie Drottins/ sem ecke vill neitn fyrerfarest. Settu þiñ Vilia og Velþocknan til Drottins/ og mun hñ giefa þier þ sem þitt Hiarta oskar.

Vor eigenlegur Vilie leider oss til Dauda og Glotunar. Huad felld vorn fyrsta Fodur Adam/ fra Guds Vinattu z þeirre Farsælld (s hñ var til skapadur) j eilijfa Glotun? Eckert añad eñ þad hañ lagde hia sier Guds Vilia/ og gegnde honum ecke/ eñ epterfylgde sijnum eiginlegum Vilia. Hñ gleymde Guds Bo dorde og hlydde Radleggingū Diøfulsins. Huør s̄ þar þ vill vera riettelegur Christi Lærefueinn/ hñ fra sier legge siñ eigeñlegā vilia/ z girnest ad epterfolgia Guds vilia/ Giættu ad Christo huad hñ giorer j sijnu Daudastrijde. Offrar hñ

ecke Gude sijnum eigenlegum Vilia/ so sem eitt packnæmelegt Oppur? Oppra þu og eirnen þar fyrer þijnum Vilia Gude/ og so heþur þu lært sialfum þier ad afneyta/ so s Christz af þier wtheimter. O DRottin þin Heilage Vilie verde/ so a Jørdune sem a Himnenum/ Amen.

# XXXII
## Vm þa riettu Huijld og Rosemd Sælarennar.

Ansins Sæl leitar sier opt ad Huijld z Vnan j hia þessu siu ndlegum og forgeingelegum Veralldarennar Hlutum/ huør ia hun þo ecke finnur/ og kiemur þad suo til/ ad Sælen er myklu ypparlegre en all er adrer Hluter j Heimenum/ Huar fyrer hun kan ecke Huijld og Roosemd ad fa j þuilijkum tilkomulitlum og lijtels verd um Hlutum. Aller adrer Hluter j Ver olldene eru Jardnesker/ enn Sælen vor hefur Himneskan vppruna, Huørnenn

skylldu

skylldu þa huilker Hluter gieta hefte z hennar Girnd Fullnægt. J Christo all eina þiñur hun sijna rietta Nuijld z Næ giu/ þui hañ alleina kañ allt þad ad vei ta/ sem hun kañ ad girnast. A möte Gu ds Reide huijlest hun j Saarunum Chri sti. A moote Aklogun Diöpulsins heff ur hun Nuijld z Nugarhægd j Almætte nu Christi. A mote skielfingu Logmaal sins j Nædar Fyrerheitum Christi. A moote Aklogun Syndaña j Bloodenu Christi/ huort betur er talande fyrer Gu de/ eñ Abels Blood. A mote Ogn Dau dans hefur hun Nugarhægd/ Nuijld og Roosemd af Vpphaþningunñe Christi/ og hans Næsæte/ þar hañ situr til Fod ursins hægre Handar.

So þiñur nu Trueñ vor og Kiærleik urið Nuijld og Nægd j Christo/ þuiad þa vier faaum Christum ad elska/ þa kañ Kiærleikuriñ ecke hærra ad komast/ edur adra ad elska. Þeir sem festa siñ Kiærle ika vid Jardneska Hlute/ þeirra Elska kañ onguа Nuijld nie stilling ad þiña.

Aller Jardnesker Hluter eru forgeinge

R v leger

leger og ballvallter/ og kuña þui ecke Girnd Sælareñar ad fullnægia/ edur hana ad sedia/ þuiad þeir eru aller skam ma stund varande/ eñ Sæleñ er eilijf og epter Guds eigeñ Mynd skopud/ huar fy rer hun kañ alldrei fyllelega ad stillast/ þyrre helldur eñ hun fær þaug eilijfu og opriotanlegu Giædeñ/ sem er Gud sialf ur/ j huorium allt añad gott er iñefaled.

Þar þyrer/ so s̃ Trweñ vor a ecke ad stydiast vid neina Hlute/ vtan alleinasta vid Christi Forþienustu/ og fullnægiu/ so æ z eirneñ elskañ vor ecke ad lada sig til nockurs añars Hlutar/ Jæ ecke til sia lfra vorra/ þuiad Elskañ til sialfra vor ra/ hun hindrar Guds Elsku/ huoria vi er ættum þo ad taka fram yfer allt añad.

Sæleñ vor er Brwdur Christi/ hu ar fyrer hun a sier alleina vid hañ ad hallda og hañ eirn ad adhyllast. Sæl eñ vor er Hws og eigenlegt Herberge Christi/ huar fyrer hun a onguñ Rwm ad gieþa/ vtan honum alleina.

Marger leita sier Hughægdar j Aud æfum z Rijkedæme Veralldareñar/ Eñ

huorn

hugrnenn skal hægd eda Nuꝺ̃ld binnast fyrer utan Christum? Huar sem Christ ur er/ þar er Fatækt/ sie hun ecke hid ytra/ þa er hun samt hid jñra j Hiartanu. Sa goode Herra Himens og Jardar/ hafde ecke þad sem hann kunne Hofde sijnu ad adhalla/ huar med hann helg ade og Vijgde oss sijnum Timum/ Fatæk tena til Handa. Audæfenn til falla hid ytra/ enn þad sem Nuꝺ̃ld og Roo skal Sa lunne giefa/ þad verdur ad vera hid jnnra j oss/ vid huad ad Sælenn kunne sier ad hallda j Daudanum/ þegar vier verd um allt ad yfergiefa. Annad huort skilia Audæfenn vid oss/ eda vier vid þa ug/ og þad skiedur stundum medan vier Lifum j þessu Lijfe/ enn avallt og obryg dullt/ þegar vier wt af Sofnum/ Huorn enn skyllde Sælenn hafa þa Nuꝺ̃ld og Roosemd af Audæfunum vid huor hun skilur?

Marger leita epter Nuꝺ̃ld og stilling sinnar Sælar j Nolldlegu Epterlæte og Vellystingum/ enn þær kunna um stundarsak er Holldeꝺ til Frids ad stilla/ enn Sælena

ønguan

onguaſteigiñ/ þuiad þeim fylger optaſt
nær á epter Sorg og Angiſt. Vellyſtin
gar og Holldſins Epterlæte heyra allet
naſta til þeſſu ſtundlega Lijfe/ Eñ Sal
leñ er ecke ſkapud vegna þeſſa ſtundlega
Lijfs/ huar fyrer hun verdur vid Lijkam
añ ad ſkilia j Daudanum/ Huorneñ ſky
llde hun þa Huild og Roſemd ſiña j vel
lyſtingunum? Saaleñ hefur ſijna Huild
og Roſemd j Christo. Huorneñ var vat
ed ſialfs Christi Huijld j þeſſum Heime?
Hans Huijld var eckert añad j þeſſum
Heime/ fra hans fyrſta Fædingar tijma/
og allt til hans Dauda/ eñ Sorg z ſw
Kuøl og Angiſt/ ſo hañ kiende oſſ ad da
ma rietf vm Hollдſins Vellyſting/ huad
hun være.

Marger leita ſiñe Saalu Hughægdar
z Huildar j ſtoorum Metordum og ypp
arlegum Embættum/ Eñ þeſſe Huijld
eñ er ecke ſtødugre eñ ſo/ ad hũ blæcker j
huørium Guſte Veralldar Maña pock
nunar og Opocknunar/ og veit alldrei
nær eñ hun j burt fykur.

Huørt Sagn edur Nytſeme hefur þu
af

af þeim Lofstyr sem þu fær af Mön̄um?
Ecke meira en̄ eitt fagurt Mælverk hę
fur þar af/ þo þui sie hroosad. Hugleid
þu þ litla Platz Veralldaren̄ar/ j huø
riu þu byr/ Huad lijted er þad ad reikna
hia øllu Landenu/ a mote allre Nordur
alfu Heimsins/ edur a mote øllū Heim
enū/ nu þo þu hefder lofstyr af øllū Hei
menum (Huad ecke kan̄ ad skie) Huad væ
re hn̄ þo ad reikna vtā so s̄ ecke par? Su
Vegsemd z sa Heidur er alleinasta Lofs
verdur/ huør ed Vtuøldum verdur af
Gude veittur j ødrum Heime. Suo sem
Lijf Lijkamans er Sælen̄/ so er og Gud
lijf Sælaren̄ar/ huar fyrer/ so s̄ ad Sæ
len̄ lifer þa ad eins riettu Lijfe/ þegar
Gud byr j hen̄e/ fyrer Næd sijns Anda
So er hun z eirnen̄ daud/ þegar hun hę
fur ecke Gud j sier bwanda/ En̄ huada
Hun̄ld kan̄ Sælen̄ j Daudanum ad ha
fa? Sa fyrste Daude er Daude Sælar
en̄ar/ þegar Madur deyr wt af fra Gu
ds næd z vingan/ vegna sin̄ar illsku/ þsse
Daude kan̄ ecke an̄ars/ en̄ epter sig ad le
da þan̄ an̄an̄ dauda Fordæmingaren̄ar.

Huør

Huør sem nu þar fyrer helldur sier stød uglega vid Gud/ z hefur hans Huggun hid jñra j Hiartanu/ hans Huğld z Ros semd kañ eingiñ Olucka sem hid ytra til fellur ad sturla.

Midt j Angrenu er hañ gladur/ midt j Fatæktene Audugur/ Midt j Anaud eñe med goodu Giede/ z j sialþum Daud anum Liþande. Hañ acktar ecke uppa Ogn nie hootan jllra Maña/ þuiad hñ hefur nooga Magt Heilagrar Huggun ar hid jnnra/ Hañ hryggest ecke j Mootlætenu/ þuiad heilagur Ande huggar hañ Kroptuglega hid jñra j Briostenu. Honū fellur ecke fatækteñ þungt mz þui hñ er noogu rijkur/ af Guds Myskun og Giæsku. Hñ sturlast ecke af Laste z miskunar Ordū Veralldareñar Sona/ med þui hñ hefur Lofstyr hia Gude. Hañ hugsar ecke um Vellysting Holldsins/ med þui honum er langtum kiærare og hefur smackande Sætleike Andans.

Hañ þer ecke leitande epter Vingan Veralldareñar/ med þui hñ hefur Hiartans Lysting af Naad Guds og hans

Vingan

Bingan til hvorrar hañ piñur j Hiart anu. Hañ girneſt ecke Jardneſkañ Fie ſiood/ med þui hañ hefur ſier þañ beſta Fieſiodeñ geymt a Himnum. Hañ ottaſt ecke Daudañ/ þui hañ lifer ævallt j Gu de. Hañ girneſt ecke freklega Verallð lega Speke/ þuiad hañ hefur H. Anda j Hiartanu ſem hañ vppfræder hid jñra æxnægelega. Hañ ottaſt ecke Reidarþrw mur nie Stormvidre/ ecke Bæl nie Brw ſande Bylgiur Vatnaña/ ecke Himentu nglaña Hootaner nie hrædelegar Formy rkuaner/ þt hñ er j truñe a Chriſtũ/ ſem ngt vpphafeñ yper allar ſoddañ nættur legar Skiepnr z liper j Chriſto eñ ecke j heimenũ. Hñ lætur ſig ecke villa Blijd læte Heimſins/ þt hñ heyrer langtũ bliid are Ord z avarpaner Chriſti j ſiñe Sæ lu z ſamviſku. Hñ ottaſt ecke Diofulſins Magt/ þuiad hñ piñur til Guds Myſtu nar og Hlijfdar/ ſa er langtum ſterkare ſem j hønum lifer/ og viñur Sigurñ/ helldur enn Dioþullenn ſm girneſt hañ ad vinna og giefur ecke. Hañ geing ur ecke epter Tilleigingu Holldſins/ þui ad

ad hañ lifer i Andanum/ og geingur ept
er hans æggingum. Þegar Andeñ Ett
durlißnar i Mañenũ/ þa deydest z Krosst
festest Hollded. Sa þarf ecke ad hrædast
Diøfulsins Aklogun/ sem veit sier visst
og obrygdula Medalgaungu Herrans
Christi.

Þuilijka rietta og saña Hußld og Nad
gd Sælareñar/ veite oss og giefe sa sem
hana hefur tilreidt og tilbwed/ DRott
iñ vor Jesus Christus/ Blessadur vm
allar Allder/ AMEN.

# XXXIII
## Vm Gooda og Hreina Samvisku.

HUAD sem helldst þu giører/
þa hugsadu øllu framar vm
Samvisku þijna/ ad þu hana
ecke sturler. Vilie Diøfullen
æsa þig til nockrar Syndar/ þa otta
stu fyrer Doome þinnar Samvisku
hiđ jñra i Hiartanu. Ef þu ottast j vid
ur

urviſt Mañaña/ þad ad premia ſem illt og oſæmelegt er/ Nuad myklu framar ſkalltu oftaſt ad giora þad j vidurviſt þiñar Samviſku. Sa jñre Vitnesburdureñ/ er langtum ſterkare eñ ſa ytre/ huar þyrer/ þo eingiñ vite af þijnum Syndum/ og þar kuñe þui eingiñ ad áklaga af Mañunum/ þa ber þo Samviſkann Vitne um þær þ huørte þær dyliaſt ecke.

Samviſkañ Mañſins er ein af þeim Bookum/ ſem fram verda bornar ꝛ vppflettar/ a ſijdaſta Dooms Deige/ huar um leſa maa j Openberingar Bokeñe.

Fyrſta Bookeñ ſem fram verdur boriñ og vppflett/ er Guds Vijsdoms Book/ ſem alla Nlute ſier og þecker/ wt af huørre openberlega munu verda vppleſeñ/ øll Mañaña Verk/ Ord og Þankar.

Su oñur Bookiñ er Chriſtur ſialfur/ ſem ad er ſu rietta Lijffins Book/ huør ſem j heñe finſt ſkrifadur med Guds Fingre/ heilogum Anda/ fyrer rietta trw j Bloodenu Chriſti/ huñ verdr af Einglunum jñleiddur j Nimneſka Dyrd ꝛ ſælu.

Þridia Bookeñ er Book Neilagrar

Riitningar/epter huorrar Iñehallde da mi verdur bæde vm vora Tru og Verk/ huort þaug eru riett eda ecke. Orded pad sem eg hefe fyrer þeim talad (seiger Endurlausnariñ) pad mun pa dæma a efsta Deige.
Fiorda Bokiñ hefur iñe ad hallda pa ytre Vitnesburdena Satanz og aññara Naudstaddra/ hűter a Deige Doomsins munu oss jñtaka j eilijfar Tialldbwder.
Fimta Bokeñ hefur iñe ad hallda pa iñre Vitnisburde Samvitskuñar/ j huore Book allar þær Synder standa vpp skripadar/ z sier huor madur hefur drygt vm sijna Æfe.
Þetta er ein harla stor Book/ a huor ia allt er vppskrifad med Stijl Samuitzkunar. So gieta þeir Fordæmdu ecke sagt ney til siña Synda a Domenum/ þt þra eigeñ Samvitska vitnar a mote þeim. Þeir gieta og ecke helldur flwd vndann Syndareñar ræklogun/ þutad Doomstoll Samvitskuñar er med þeim/ og a Heima hia þeim/ huort sem þeir flyia. Þrein Samvitska er sa skiærasté Speigell Sal areñar

alteñar/ j huorium hun kañ bæde ad sia Gud og sig. J saurugre Samvisku kañ ecke ad siaſt þad ſkiæra Lioos Guds Auglitis/ Huar fyrer Endurlausnareñ so seiger/ Ad sæler sieu þeir hinu Hrein hiortudu/ þuiad þeir munu Gud sia.

So sem hrein og ſkiær Asiana er Dæge leg alits fyrer Mañaña Augum/ so er z vel ſkartande fyrer Guds Augum/ hrein og osaurgud Samviſka/ Eñ ſweñ og roteñ Samviſka fæder af sier þa Orma sem alldrei wt ap deya. Þar fyrer er oss allt kapp þar a leggiande/ a medañ þeſſ ar Liſps ſtunder vara/ad vier lærum ad piña til þeſſara Samviſkuñar Orma/ og þa wt af ad deyda þ ſaña Jdran/ eñ fooſtra þa ecke a Vggaleisenu jñ til þeſſ eilijfa Tijmans.

Allar hinar adrar Bækurnar sem adur voru vpptaldar/ eru til þeſſ þienan de/ ad þeſſe Samviſkunnar Book mætte leidriettaſt og vpp aptur ſkripaſt/ Huar til ſtedar ſtoor Viſka/ ef þar er pyrer ein jll Samviſka/ þuiad epter þinnar Samviſku Book verdur þu Dæmdur/

Sſ fyrer

fyrer Guds Doomstoole/ eñ ecke epter Book þiñar Visku. Vilier þu lata Book þiñar Samviſku riett ſkripaſt/ þa ſkrifadu hana epter þui ſem ſtendur ſkrifþ ad æ Lijffins Book. Lijfsins Book er Christur/ þar fyrer ſkijladu trwna þijna epter hans Kieñingum/ og Lijferne þitt epter hans Framferde. Þa ed fyrſta vet dur Samviſkan þijn good/ ef þu heþur hreint Hiarta/ Sañordañ Muñ og til bærelegt Verkaña Framferde. Hafdu Samviſku þijna ſo ſim fyrer aftad Lios/ j øllum þijnum Giørdum/ þutad hun kañ gløgguaſt ad ſyna þier/ huøriar Athaf ner riettar eru/ og huøriar Rangar. Ta ktu þier ſterkañ vara þyrer þeim Doom ſtool Samviſkuñar/ þar ſem hiñ ſame er ſekur/ Sakaraberiñ/ Volturiñ/ Dooma riñ/ Fangelſed/ Hegnareñ z Bødulliñ/ Huar ſkal þa þiñaſt Vndañfære/ þegar ſa hiñ ſame er Doomariñ ſem Vitne ber/ og hønum er kuñugaſt vm Maaled/ ſem yferdæmer? Huort Gagn heþur þu þar aþ/ þo aller adrer lofe þig og hroofe þier/ Eþ Samviſka þijn æklagar þig?

Sterk

Sterkare er Aklogun heñar eirnrar/ eñ Loþstyr añara Þusund. Nuad skadar þig þ/ þo aller adrer laste þig/ z hallde a nyte þier/ ef Samviskañ ein afsakar þig? Þesse Doomariñ alleina gieiur bæ de Maaled sokt og Doomiñ wrskurdad. Þesse Doomariñ lætur sig ecke blinda med Myfum z skeinkingum/og ecke my kia fyrer nockurn Bænastad. Nuert he llst þu geingur/ eda huar hellst sem þu ert/ þa er alltijd Samvisska þijn hia þier berande med sier þad sama sem þu hefur j hana jñlagt/ huort sem þad er gott eda jllt. Þetta Geymsluþied sorvarar hun so leinge sem þu liper/og skilar þier þui aptur a epsta Doome. Þar fyrer sagde Spæmadyriñ riett/ad Mañsins Neima meñ sieu hans Domer. So hefur þu j þijnu eigenlegu Nwse/ og af þijnum eig enlegum Neimelis Mønum/ þañ s þig aklagar/ þañ sem ad þier giœter/ og sijd añ a þier hefner.

Nuad gott giorer þad þo Madur life j Nægd allra Audæfa/ ef hañ þijnest aþ Suipum jllrar Samvisku? Bruñur og

Siij Bpp

og Vpprætis alltar Mañsins Farsæld ar/ er j Mañsins sialfu eigenlegu Hug skote. Eñ sie sa Brunuriñ aptur bytgd ur/ Huorneñ kuña þa þar Laker wt af ad pliota? Huørt Gagn giører þad/ þott ein siuk Mañeskia ligge j Gullegre Sæng? So giører þad og ecke helldur Sægn þeim sem hefur jlla Samvisku/ þo hañ hafe allra añara Hluta Nægter z nooga Auglegd. So stort Kapp sem þi er byriar ad leggia þar a/ ad þu odlest eilijfa Sæluhialp/ So stort kapp ber þi er og eirneñ þar a ad leggia/ ad þu haf er gooda og roolega Samvisku/ þuiad under eins og þu misser gooda Samvisku þa misser þu og eirneñ Trwna/ eñ ad mi stre Trwne/ þa misser þu Guds Naad/ Eñ huorneñ kantu ad vænta þier eilijfs Lijfs/ þa þu hefur mist Guds Naad? Þuilijks Dooms mattu þier vænta af Christo/ so sem Vitnisburdur þiñar eig eñ Samvisku er hlioodande, Illgiørda Meñerner/ þo eingiñ þa æklage/ eda ne ikt vm þa vppbere/ eru sialfer sijner ækl agendur.

So

So sem pad geingur til fyrer peim Druckn/ ad a medañ peir eru j sinne m kosu Drÿckiu/ pa finst peim ecke Med giora sier neitt Mein edur Baga/ eñ ſtrax sem peir hafa sofnad/ og vakna vpp aptur/ pa finna peir huornen su O hoflega Dryckia hefur pa vtleiked/ So geingur pad til fyrer peim sem Syndga a medañ peir eru ad Synda jdiuſte/ z jſt til pess peir hafa hana framkuæmt/ pa formyrkuast suo peirra Hugskots Au gu/ og peirra ſkilnings ljoos/ ad peim sy nest so sem hun leide eckert jllt epter sig/ Eñ sem Syndeñ er fullkomnud/ pa rijs Samviſkañ vpp af Suefne/ og nagar pa og klagar akaflegar/ eñ nockur sokn are eda Sakaræbere kañ ad giora.

Par eru priggia handa Doomar til/ Fyrst er Guds Doomur/ Par næst sam viſkunnar Doomur/ Og j pridia lage Veralldarennar Doomur. So z pier er nu Omøgulegt ad ſkioota pier vndañ Guds Doome/ suo er pier og lÿka Omo gulegt/ ad komast vndann Doome pinn ar eigenlegrar Samviſku/ po pu kunner

ſkundum vndan Veralldarennar Doom᷑
ad gieta komiſt.

Par kann eingenn Veggur ad ſkilia a millum þijn og þeſſa Vottſins/ ſuo hann ecke ſiae þijnar Giørder og athaſner. Nuør apſokun ſkyllde þier duga/ þegar ſu j ſtre ærklǫgunenn hun fordæmer þig? Rooſemd Samviſkunnar/ er ſuo ſem nock urt Vpphaſ eilijfs Lijfs.

Med længtum meire Nugarhægd/ kantu þig ad gledia/ ut af goodre Sam viſku j Mootlætenu/ enn ap jllre j Medlæ tenu. Giegn allre Ofrægd og Alyge/ kantu orugglega ad bera apſokun good rar Samviſku. Spyrdu ſialfann þig ad vm þijnar eigenlegar Giørder og Framm ferde/ þuiad ſialfsum þier er þar vm kunn ugra er nockrum ødrum. Nuad meinar þu ſtoda mune annara Manna oſønn hroo ſan? Eda huad ſkyllde þig ſkada annara loginn Laſtyrde þier til Handa? Epter Guds Dooms ælycktan alleina ſtendur þu eda fellur/ Enn hinna annara Vitnisbu rder/ ſtydia þig huørke nie fella. Sam viſkann verdur þui eilijf/ ad Sæleñ vor er

eilijf

eilijf. So leinge liggia Helvijſk' Kual' a þeim fordæmdu/ ſo ſem þeirra Samviſ ka læιur ecke aþ yfer þeim ad klaga.

Einginn Elldur hid ytra kan̄ Lijkam an̄ ſo ad plaga/ ſo ſem þeſſe jnre Loginn/ plagar Sælena. Sælen̄ er eilijf/ ſem j þeſſum Loganum kuelſt/ þui er og eirnin̄ Samviſkunnar Elldur eilijfur ſem hana kuelur. Onguar ytre Pijſler eru ſo O bærelegar/ ſo ſem þeſſe jnre ſløg Sam viſkunnar. Fordadu þier þar fyrer/ fyrer ſekt Syndanna/ ſuo þu faller ecke j Kual er Samviſkunnar. Stadu til þu wſliett er pyrer riettα og ſanna Jdran/ þijnar Sy nder wr Book Samviſkunnar/ ſo ad þær kunne ecke ad verda leſnar a Deige Dom ſins/ og þu verder ecke þeirra vegna for dæmdur. Vißlocktu Orm Samviſkunn ar/ med alvarlegre Gudrækne/ ſo hn̄ fae þig ei opſmart bited annars Heims. Viſlo cktu þeñan jnvortis Elldin̄ med þijnum Tarum j þeſſum Heime/ ſo þu faaer ſuo lun, Himneſkar Huggunar j odrū heime.

O Drottinn/ Gief þu oſſ ad vier kunn̄i ad ſtrijda eitt gott ſtrijd/ z behallda ſo Trw

S v ne z

ke/og goodre Samviſku/ ſuo ad vier lok ſins komuſtt klaklauſt jñ til vors reitta Fodurlands/ Amen.

## XXXIV
## Huornenn Madureñ ſkule
### ſtunda vppa ſannarlegt Lijtelæte.

DIrdu þ þier chriſtiñ ſal/ z athuga huad aum Mañeſk iañ ſie/ og med þre Ihugan verdur þier hægaſt ad forda þier Freiſtingu Drambſemeñar. Huad tilkomulijtell er Madurin/ þa hañ fædiſt j Heiminñ? Huad aumur a medañ hñ hi er velkeſt j þeſſu Lijþe? Og huad ſorgleg ur/þa hñ verdur þ Daudañ burt hiedañ aptur kalladur? Madurinn j þeſſu Lijþe/ verdur aſokkur af Dioplenum/ særdur af Freiſtingunum/ lockadur af Vellyſtingu num/ nidurſleigeñ z ſo ſem Foottrodeñ af Motiætingunum/ piotradur af Loſtunū eñ rændur og ſneiddur Mañkoſtunum/ Huar

Hvar af villtu þa Dramba og stæra þig þu Jord z Aska? Hvad varstu ædur enn þu fæddest? Varstu ecke fwlt z andstyg gelegt Sæde? Hvad varstu a medann þu hier lifder? Varstu ecke Saurenda Se ckur? Hvad verdur þu epter þetta Lijf? Muntu ecke verda Orma Fæda? Ef ad nockud gott finst hia þier/ þa er þad ecke þitt eiged/ helldur Guds alleina. Eckert er þitt eigenlegt vtann Syndernar/ þar fyrer mattu med riettu eckert þier til eigna vtann þijnar Synder/ Þad er eirn illur z Heimskur Þræll sem vill stæra sig af Gotzeigins Herra og Hwsbonda,

Lijttu Manneskia a Epterdæme Christi/ hann þionar øll Himnanna Dyrd/ Jaa hann er sialfur su sanna Dyrd z Vegsemd/ z þo vill hann ønguan Veralldlegan Hroosinn hafa/ helldur hroopar hann z seiger/ Læred af mier/ þui eg em Hoogvær og af Hiartta lijtelatur. Sa eirn er sannur Guds elskare/ sem er hans epterbreytare/ Sa sem hefur Christum sier kiærann/ hann hefur sier z kiært hans Lijtelæte. Þa hid fyrsta ma Þrællenn skammast sijn ad Dreissa/ þegar

hann

hañ ſier og yfervegur/ huad Lijtelætur ſie ſialfur Drottiñ Dyrdareñar. Endur lauſnareñ ſeigeſt vera ſu Lilia ſem vex j Dalverpunum. Sañarlega vex þetta edla Bloomſtred Herrañ Chriſtur ecke vppa Fiollunum/ þad er/ j Drambſom um og Hofmoodugum Hiortum/ helldur j Dalverpenu/þad er j lijtelatum z aud miukum Hiortum trwadra/ Þuiad riett lega er þad ſagt/ af einum þeim Heilaga Forfødur/ Ad lijtelaat Saal ſie þad hæg aſta Sæte z Suefn Herberge Chriſti/ Straumar Gudlegar Nꝏdar/ Reña op an epter/ eñ ecke vppa moote. So ſem Bøtneñ ſækia ecke vppa Hædernar/ ſuo plijtur og ecke Guds Nꝏd og Myſkun vpp til þeirra Drambſomu/ helldur til þeirra nidurſlegnu j Hiartanu. Sa hei lage David ſeiger j ſijnum einum Pſal me/ Ad Drottiñ ſem byr j Hædunum/ hañ lijte hellſt nidur til þeſſ Lijtelmoot lega bæde a Himne og Jordu.

Þad er vijſt furdanlegur Hlutur/ eñ þo j Raun obrigdanlega ſañur/ ad vier kuñ um ecke vpp fyrer þañ allra hædſta Gud og

og hans Nætign ad koma/ vtan fyrer þ allra lægsta og audmiukasta Lijtelæte. Huør sa sem er Lijtelmootlegur fyrer sijn um Augum/og epter Alite sijns eigenn Hugskots/ Hañ hiñ same er mykels hæt far j Guds Augliti. Sa þocknast best Gude sem sialfum sier misþocknast.

Gud Skapade aþ ønguu Himen z Jord/ eñ so sem þad gieck til j fyrstu Skop uneñe/so geingur þad eñ til j Endurskopuneñe. Nu skapade Gud alla hlute aþ ønguu/ z þui Endurskapar hñ mañ skiepnuna aþ ønguu Efne/ Huar fyrer/ vilier þu verda Endurgieteñ og Endur skapadur til eilijfs Lijfs/ þa lættu þier þykia þu sierf eckert og ønguu nytur fyr er Guds Auglite.

Aller Meñ eru veyker og vanmættuger/ eñ þo mattu þig sialfur ad dæma hiñ allra veykasta og vanmættugasta af øll um/ þad skadar þig eckert/ þo þu wt af sañarlegu Lijtelæte hallder þig og dæmer ad vera minst verdann aþ øllum eñ hitt er skadsamt/ ef þu dirfest ad meta þig fram yfer nockurn.

Þeir

Þeir xxiiij Aulldungarner(þad er oll Utvalen̄ Guds børn a Himnum)kasta sijnum Koronum nidur fyrer Stoolen̄ Lambsins/huar med þeir tilleggia Gude alla Dyrd Riettlætesins/Myskunaren̄ar/Spekeñar z allra Dygda/ Huad bære oss þa ad giora aumum Syndugum hier a Jørduñe? Þeir Heilogu Guds Einglar og Seraphim/hylia sijnar Asionur fyrer Guds Dyrdar Auglite/ Hu ad skylldе þa su Fortapanlega Maňskie vna eiga ad giora/ huør ed fyrer Gude ma reiknast andskyggeleg j margañ mata? Christur sem er sañarlegur/ og eingieten̄ Guds Sonur/ var so furdanlega Lijtelatur/ad hañ nidur stie af Himnū og vppa sig took vora audvirdelega Naturu/ nidurlægiande sig/ og leggiande j Jotuna og j Daudañ. Huad langtum framar bære þa aumre Maňeskiu ad Lijtelæcka sig/ huør ed med sinne Synd/ hefur falled fra Gude sijnum? Sia þu og athuga Christin̄ Saala/ med huad purdanlegu z Dasamlegu Lijtelæte ad Endurlausnaren̄ ockar/ hefur læknad z gradt ockar

ockar Drambſeme/ og ſkilldu þig þui vid Drambſemena. Fram̃ vm veg Þijnuſtar z Lijtelæteſins gieck Christur jñ j Dyrd ena/ Meintu þar þ ecke/ ad þu muner þa ngad epter hønũ komaſt/ ef þu geingur a veige Drambſemeñar. Dioplarner voru vegna Drambſemeñar wtrekner vr Himnarijke/ Huorneñ ſkylldet þu þa ſiñ Himnarijkid hefur eñ ecke odlaſt/ komaſt þangad a veige Drambſemeñar? Vegt Drambſemeñar leidde Adam j burt wr Paradijs/ Huorneñ ſkyllde hañ þa kuña ad leida þig þangad/ huadañ hñ þiñ fy rſta Fodur Adam wtleidde. Oſkũ helldr ad vier meigum vera Þienarar/ og Þuo Fætur vorra Bꝛædra med Christo/ hell dur eñ ad metaſt epter opttignarlegu Sæ te med Dioplenum. Lijtelæckum oſſ j þe ſſu Lijfe/ So ad vier verdum vpphafner j odru Lijþe. Athuga þu ecke Sœla miñ þ ſem þu hefur/ helldur hitt/ þ ſem þig vppa vantar/ af þui ſem þu æiter ad ha þa med riettu. Lættu þig meir hryggia þær Dygder z þu hefur ecke/ eñ þu hroſ eꝛ þu af hinũ ſem þu hefur. Þeige þu

yfer

yfer þijnum Mañkostum/ eñ vidurkieñ
þu þijna Leste/ þuiad þad er vggande/
ad ef þu openberar Fiesiod þiña Mann
dygda med Nroosuneñe/ þa mune Diof
ulleñ kuña ad suikia hañ af þier med
Drambsemeñe. Ellduriñ verdur huor
ge betur forvaradur eñ j Oskuñe/ so ver
dur og Elldur Kiærleikans huorge betur
faleñ eñ j Osku Lijtelætesins.

Drambsemeñ er Sæde allra Lasta/
Varastu þar fyrer ad vpphefiast af Dr
ambsemeñe/ so þier verde ecke nidur kast
ad j Afgruñ Lastaña. Drambsemeñ er
su hægasta Sæng Diofulsins/ varastu
þar fyrer Drambsemena/ ef þu villt ecke
Diofulsins Vnderlægia vera. Dramb
semeñ er sa sterke Þerrervindur/ sem
vppþurkar Bruñ Gudlegrar Nadar/
Varastu þar fyrer ad vera vppblæsenn
af þessum Vindenum/ suo þu misser ecke
þañ sæta Vokua Guds Nadar.

Lækna þu Herra Jesu Christe/ þa sto
ru Boolgu og Þrota vorrar eigenlegrar
Drambseme. Þitt Hellaga Lijtelæte ve
te bæde fullnægia og Fyrermyndan vors
Fram

Framferdis/ Tatt þu vora Trw kuña stad fastlega ad sier ad vepia þitt Lijtelæte/ z vort Lijferne kuña þui riettelega epter ad fylgia z sier þar epter ad haga/ Amen.

# XXXV
## Huørnen̄ Man̄e byrie ad fordast Agirndena.

SO kiær sem þier a ad vera þijn Saluhialp/ So andsijp ggelegur a þier ad vera Agi rndareñar Lostur. Þar þinst eingiñ so aumur og armur sem sa Agiar ne/ huorn so vel brestur þad sem hñ hef ur/ so sem þad sem hañ ecke hefur. Sa hiñ agiarne er þui hraklegre øllum ød rum Møñum/ Ad þo hñ sie ønguum go dur þa er hñ þo sialfum sier vestur.

So sem Upphaf allra Synda og La sta er Dramblætid/ so er og Agirndenn Root allra Lasta. Drambseminn snyr Mañe fra Gude/ eñ Agirndeñ snyr hon um til oskynsellrar Elsku a Skøpudum

T .Skiep

Skiepnum. Eñ skæum og hugleidum/ huad dyrmætur Hlutur þad er/ sem Agirndeñ afrekar. Nu afrekar stundū eckert/ eñ stundum stundleg Audæfe/ og þau med vanblessan og Guds Opoktnan. Audæfeñ færa med sier omak z Armædu/ a medañ þeirra er aflad/ Otta z Ugga/ þegar þaug eru wtvegud og j vora Eignkomiñ/ Sorg og Angur/ þegar vier þaug aptur missum. Añad huort yfergiefa Audæfeñ þig/ eda þu yfergiefur þaug. Huar fyrer/ ef þu setur þÿna Von til Audæfaña/ vppa huad villtu þa vona a Daudastunduñe? Ecke er von þu trwer Gude/ til Umsorgunar a þinne Sælu/ þar þu trwer honum ecke til ad forsorga þiñ Lÿkama.

Hafe sa Almættuge Gud Umsorgun fyrer þier/ Þui skyllder þu þa efa vm/ huort hañ giete veitt þier þÿna Lÿfs Næring eda ecke? Hafe sa allra vÿsaste Herra og Drottiñ vmhyggiu fyrer þier/ Huar fyrer ertu þa stwrande/ huerneñ hañ kuñe þig ad fæda? Hafe sa milldaste og orlætaste Herrañ Forsorgū fyrer þier/

Huar

Huar þyrer efaſtu þa vm/ huørt hñ vil
ſe þig næra eda ecke? Þu hefur Loþun
Chriſti Handſkriptada/ huør ad er Dro
ttiñ yþer Himne z Jørdu/ þar vppa hlt
oodande/ Ad þeim ſem leita Guds Rijkis
z hans Riettlætis/ ſkule eckert añad na
udſynlegt a Bord breſta. Vppa þeſſa
Loſun mattu þig vel reida/ þuiad hann
brigdar ecke ſijn Ord/ aþ þui hañ er ſialf
leikuriñ ſialþur.

Agirndeñ er ſu ſuiſvirdelegaſta Afgu
dadyrkan ſem verda kañ/ Huør ed ſetur
Skiepnurnar j Sæte Skaparans. Sa
hiñ Agiarne ſetur ſitt Trauſt til Skiep
nañа/ huørt hañ ætte alleinaſta til Gu
ds ad ſetia. Huad ſem hellſt framar ver
dur elſkad eñ Gud/ þad verdur og eirniñ
framar meted enn Gud/ og frañ yþer
hann teked/ Enn huad ſem þrañ yþer
Gud er teked/ edur hønum framar virdt/
Er þad ecke auglioost/ ad þad er j Gu
ds Sæte ſett/ og hædſka Guddoomlega
Tign veitt ſ̃ verda mæ? Eſau ſellde ſi
na Frumgietning þ̃ eina litla Maaltijd/
ſo ſelia z marger Arfvoon ſijna j Himna

rijke/ sem þeim er aþ Christo wtvegud/ þ stundleg Staðe og Audæþe.
Judas selldе Christum þyrer xxx. Silf urpeninga/ So selia og þeir hinu Agiot nu Guds Nad og Vingan af Christo wtvegada/ þyrer stundlega Aura z Rij kedæme. Huorneñ kañ sa ad lata sig langa til Himneskз Sætleika Gudleg rar Nadar/ sem þullur er aþ Guñnadra fenu? Huorneñ kañ sa hia Gude sijna Lysting ad hafa/ sem hana hefur j Aud z Rijkedæme stundlegu hier a Jordune? Audæfeñ eru eirn Þyrner/ seiger Endur lausnareñ/ þar þyrer/ huor sem hellst els kar Audæfeñ og Rijkedæme/ hañ elskar skadsama Þyrna og Þysla. O huad ma rga Saal niðurkiefia þesser Þyrnarner? Þui so sem Þyrnarner leyþa ecke Hueite nu vpp ad vaxa hia sier/ So nidurkiefur og eirneñ Audæfa Agirndeñ andlegum Aoexte Guds Orda/ So sem Þyrnarn er særa Meñ og stynga med sijnum Bro ddum/ suo særa og meida Audæfeñ Mañ sins Hugskot med Vmsorg z Ahyggiu/ Huørs heþur þu þier añars þa ad vænta eñ

en þess ad þu muner sialfur eilijflega for ganga ef þu safnar alleina forgeingele gum Fiesioodum z Audæfum?

Þeir sem safna sier Fiesioodum hier a Jordene/ þeir eru lijker þeim sem ad gey ma sitt Korn diwpt nidur j rakum z Vess saslmum Jardar Hwsum/ Þuiad ædur en þeir ap vita/ þa er Korned skiemt og Fordiarfad. Huad Heimsker eru þeir z ofrausyner/ sem ecke girnast neitt annad en Jardnesk Audæpe/ Þui huorneñ kañ sa Jardneske Hlutur ad Hugsuala Sæ luñe/ z ad er eirn Ande? Sælen er skop ud til Eilijfdar/ huar fyrer þu giører he ne oriett/ ef þu lætur hana eckert annad girnast/ en þad sem stundlegt er.

Þess leingra sem þu lypter Sælunne til Guds/ þess leingra dregst hun fra gir nd og elsku Audæfana.

Skiepnurnar þær sem næstar eru Him nenum/ þær safna sem minstre Atviñu saman/ so sem ad eru Fuglar Lopts/ huorier huorke sa nie vppskiera/ nie j Kornhlødur safna. Mys og oñur Skr idkuikinde hapa samdratt og sapna til

T iij sam

samans j sijnum Holum og Fylsnum/og kiemur þad so til/ ad þær Skiepnur eru störe j Tegund enn Fuglarner. Þad er Teikn til ad Sælenn mune vera fraskare enn fra Gude/ z of samlijmd og samrijnd/ vid Jardneska Hlute/ ef ad hun elskar Audæfenn framar enn her. Gud gaf þier Sælena/ sem ad er sa dijrmætaste Hlutur/ skylldet þu þa ecke trwa honum til ad hafa Vmhyggiu fyrer þijnu Lijkamlegu Lijfe?

Gud fostrar Fugla Himensins/ skylldi hann þa ecke fostra þig myklu helldur/ þu sem ert epter hans eigenn Mynd Skapadur? Gud klæder Liliugrös Akursins/ skylldet þu þa efast vm huort hann mune vilia klæda þig eda ecke? Gud Nade/ ad Skilningur Mannsins z trwenn hans/ kann ecke ad kienna honum so myked sem Natturann all eina kienner Fuglunum. Fuglarner huorke nidur sa nie oppskiera/ helldur bijfala Gude/ og trwa honum til foostrs og forsorgunar sinna Lijkama. Enn þeir Agiornu trwa ecke Gude og hans Orde/ vt ann þeir mdur fyrre forsorge sier sialfum fyrer Atuinnunne/ so trua þeir sijdann/ ad hann mune

Christur sig j sundur mørdum og kromd um Salum a Motlætis tijmanum. Ri ettur Fognudur og Glede Mañsins kie mur alleinasta þar aþ/ þegar Gud byr j hønum og bygger. Nu byr hañ hellst j hønum/þegar hañ heþur sundurknosad añ Anda/og lijtelæta og ængrada Sal Eñ Sælena sundurknosar best Motlæt ed og Freistingiñ/huar þyrer rietteleg gl ede og Fognudur þinst alleinasta hia þe im sem Freistingar og Mootlæte lijda.

Freistingiñ er suo sem eirn Vegur til Gudlegrar Þeckingar/huar fyrer Drot tiñ seiger/Eg skal vera hia hm̃ j Þrein ginguñe/ Eg skal frelsa hñ wt þadañ/ og læta hñ þæ ad siæ Hialp z Hiastod mijna. Sa blinde Tobias sæ eckert fra sier/huørke vpp nie nidur/ fram̃ nie til huørugrar Handar. Eñ þegar hañ ha fde Synena aptur feingid/þ̃ Eingeliñ Raphael/þa sa hañ allt þetta sem hañ ædur kuñe ecke ad siæ/ verande Læknad ur aþ Galle Fiskſins. Þesse Læknisdoom ur sem Synena veitte Tobiæ/merker þ/ ad Augu vor verda ad smyriast j. beiskū

Tarum Mootlætingaña/ ef vier skulū riettelega sia og þeckia/ huad vier erum sialfer j vorre Nattúru/ og huad Lijkam leg Audlegd og Velgeingne sie. Huar fyrer seiger Postulen̄/ ad vier þeckium so sem j Rædgætu? Pad kiemur so til/ ad j Freistingunum þa køñustum vier vid/ ad Gud kiæter og gledur sijna wtvalda/ med þui hinu sama/ sem fyrer Mañaña Augum synest Hrygd og Sorg ad vera. Hñ lijfgar þa med þui/ sem oss synest riettur Daude ad vera. Nañ læknar þa med þui sem oss synest fyrer vorum Augum vera Soott og Siukdoomur/ Nañ aud gar þa med þui sem oss synest Fatæki z Orbyrgd vera. Þar fyrer atte þackna mur z velkomeñ ad vera Krossen̄ z Frei stingiñ/ øllum þeim s̄ ecke vilia Christo vorra vegna Krossfestū oþacklæter ñnast

O goode Jesu/ legdu hier vppa Elld Freistingaña. Slædu oss hier med stas Motlætesins/ j þessum Lijfstundum/ suo ad þu hlijfer oss añars Heims. O þu goo de Jesu/ þu sem burtkastar þeim optsiñ is fra þier/ sem þu virdest ecke ad hirta/

Legdu

Legdu vppa oss þijna Myskunsama Hirt
ing/ so ad vier fyrer hana drøgustum til
þijn aptur. Þiaa þu og þiaka þañ ytra
Mañeñ/ epter Føðurlegre villd þiñe/ so
ad sa hiñ iñre vaxe z þroist apt: j stadeñ.
Stryd þu þ mig goode Jesu/ j mier og
miñe Natturu/ Stiorna þu Bardagan
um/ og vertu sialþur Korona og Laun
Sigurviñingareñar. Lattu allt þad sty
rkia og auka Trw mijna/ sem mier vill a
moote blaasa j þessum Heime. Kom þu
goode Jesu til Hialpar miñe veyk̃re og
Vanmattugre Trw/ Þuiad suo hefur
þu fyrerheited hia Spamañenum/ ad so
sem Moodereñ huggar sitt Barn/ so vil
ier þu oss hugga.

Moodureñ hun vppfostrar med meire
Ahyggiu sitt veykt og vanmattugt Ny
fædt Barn/ So þarþ og eirneñ Herra
Jesu Christe/ Trweñ mijn þiñar næku
æmrar Hiukrunar vid/ skule hun ecke wt
aþ slockna alldeilis.

Lattu mig meir og framar giefa mig
ad þiñe Jñvortis Huggun/ enn ad ollu
þui/ sem Dioflar og Meñ kunna a mote
ad

ad mæla/ ꝫ mig med ad hrella/ Jæ/ Tæk tu mig þaſtara hallda mig vid þijna hu ggun/ eñ vid eigenlega þanka mijns hug ſkots og Hiarta. O þu goode Samarita ne/ ſem mig þiñur hælf Daudañ fyrer þier a Veigenum liggiande/ jñhell þu ſkorpu Vijne j mijn Synda Sær/ Eñ gleym þo ecke ad jñhella þar og eirniñ þui miuka Vidſmiøre þiñar Huggunar legdu ſo margfalldañ Kroſſ vppa ſiñ þig lyſter/ Eñ jafnframt þeſſu/ Styrk og ſto duglynde til ad vmbera þad med Þolen mæde/ ſem þu vppa leggur/ Amen.

## XLI
## Grunduøllur Chriſteleg
### rar Þoleñmæde.

HAlltu kyrru fyrer Sæla mijn og lijd og vmber med Þoleñ mæde/ þañ Kroſſ ſem Gud þiñ leggur þier a Herdar/ ꝫ tak feigins hende vid þui Mootlæte/ ſem hañ þier tilſkickar/ Rendu Þonkum þij

num

num til Pijnunar Christi/ hijns blessada Brwdguma/ og athuga þar/ huernen þin Endurlausnare var pijndur og plaa gadur/ Fyrst af øllum/ Þar næst pyrer alla/ Og j þridia lage/ a øllu.

Af øllum var han pijndur/ Þui hans Himneske Fader framseillde han vnder Kuolena/ og syndest so sem ad hafa han alldeilis yfergiefed j Daudans Neyd og Þreingingu. Hans elskuleger Læresuein ar yfergaafu han og flwdu fra hønum Hans eiged Folk Gydinga Lijdurenn/ for acktar han so z fra sier hrekur/ Ad þeir kioosa helldur Mordingian Barrabam lausan/ en Christum. Heidingiarner ne gldu han a Krossen. Jaa/ af allra Man na Synda strasse og Þunga verdur hn so þiakadur og þiaadur/ j sinne allra helg ustu Kuøl og Pijnu/ ad riettelega maa seigiast og vidurkienast/ ad hn hafe san arlega vered af øllu pijndur z plaagadr.

Han pijndest og eirnen fyrer alla men lijka eirneigen fyrer þa sem forackta þa dyrmæiu hans Pijnu/ og vnder Footum troda hans allra helgasta wkhellta blod

niid

med ſiñe Forracktan og Jdrunarleyſe.

Nañ pijndeſt og eirneigeſt a ollu/ pad er/bæde a Sæalu og ollum Lijkamans Li mum/ Þui yfer þeirre Kuøl ſem hañ le id a Sæaluñe/ klagar hañ ſo j Graſgard enum og ſeiger/ ad ſijn Sæl ſie Hrygg allt til Daudans/ og a Kroſſenum hroop ar hañ af ſtærſtu Sæalareñar Angiſt/ ſuo ſeigiande til Fodurſins/ Miñ Gud/ miñ Gud/ þui hefur þu mig yfergiefed? Aller hans Bleſſader Limer a hans hel gaſta Lijkama ſueitaſt og litaſt þeim ra uda Dreyra. Pad bleſſada Hoꝼudid verd ur ſundur kraſſad/ af Oddum Þyrnekra nſins eda Þyrnekoronuñar. Tungann ſmackar þañ beyſka Myrrudryck. Hen dur og Fætur ſundur grafaſt med Nogl unum. Sijdañ verdur og glegnumløgd med Spiote/ Allur ſa ſignade Lijkame Hwdpletteſt/ Fyrſt j Rædninguñe/ Og ſijdañ wiþenſt og teygeſt j Kroſſfeſtingu ñe. Ja/ Hañ lijdur Hungur/ Þoſta/ Ku lda/ Førſinæn/ Fætækt/ Brijxl/ Hæd/ Bentar/ Dauda/ og þa ſæru Kroſſens Kuøl.

Hug

Nu gleid nu Sala mijn/ huad Ovidut
kuæmelegt være þad/ ad Herran skyllde
so kueliast/ enn Þrællen vera ofkætur?
Ecke er tilbærelegt/ ad Endurlausnar
en skule þola so þungar Pijsler ꝥ misgio
rder mijnar z þijnar/ en vid skylldū samt
j Synda Idiuñe hafa jafnañ ockar gle
de z Epterlæte. Otilbærelegt er ꝥ/ ad
Hofudid skule so plagast/ eñ hiner ædrer
Limerner ecke pared til kieña. Onguañ
eigin so mijn Sal/ helldur so ꝥ Christz
sialfur hlaut j giegnū sijna særu Pijnu
z bitrañ Dauda/ ad ganga jñ til Himn
eskrar Dyrdar z vegsemdar/ Eins verdū
vid z so ad ganga j giegnū margar Mot
lætingar/ jñ j ꝥ eilijfa Dyrdareñar rijke.
Athuga og eirnenn Sala mijn/ hua
rsu ad Gud Endurgielldur milldelega/
eilijfa Dyrd og Fognud/ fyrer þessa Hei
ms Mootlætingar. Postulin seiger/ Ad
ecke sieu þessa Heims Harmkuælingar/
þess verdar/ ad þeim sie nockurn eigenn
samjafnad vid þa Epterkomande Veg
semd Guds Barna. Huorsu myked sem
vier hliotum ad lijda j þessum Heime/ þa
varer

varer þad þo alleinasta vm eirn lijteñ tij
ma/ Stundum ecke mred/stundum ecke
Vikuna/stundum ecke Dageñ wt/ Eñ
alldrei leingur eñ þessar stuttar Lijfstu
nder vara/ Eñ Dyrdeñ sem fylger a ept
er/ þrytur ecke vm alla Eilijfd. Gud
sialfur hyggur gaumgiæfelega ad ollū
vorum Mootgange/ og vill leida hañ j
Lioos a þañ sijdasta Dag/ oss hans wt
voldum til Vegsemdar og Hroosunar.
Þeinktu nu þa vm fyrer þier Saala mijn
huad liooft og osæmelegt þad mune vera
ad koma fram a þeim vegsamlega Sam
komu deige allrar Veralldareñar/ z ha
þa ecke þar af þui fagra Skarte Moot
lætingaña/og ad bera þa ongua Gullse
ste Krossburdarens sier a Hælse. Sialf
ur Drottiñ vill þurka og þerra oll Hr
ygdar Tæreñ af Augum siña Vtvald
ra. O huad farsæl eru nu þaug Hrygd
artæreñ/sem so dyrmæt Hond virdest af
ad striuka. O huad farsællegur Hlutur
ertu Kross og Mootgangur/ huor ed a
Himnum hefur þitt dyrmætt og rijkug
legt Verdkaup og Endurgialld.

David

David var ecke full tiju ar j sine Ve
legd/ Eñ þar j moote Rijkie hañ j heil
þiorutiju ar. Þetta var so sem nockurs
konar Fyrermyndan þar vppa/ ad Harm
kuæla tijmeñ Guds Barna skyllde vera
stuttur/ eñ sa epterkomande Farsælldar
z Fagnadar Tijmeñ længgiadur/ Jaa/
ad soñu eilijfur og Endanlegur.

Hugleid og eirneñ Sala mijn/ z ysker
skoda Hormungar z Mootlæte allra Gu
ds Astvina. Siadu huørsu Job situr j
Saur og Ðsku vetnande og Gratande.
Siadu huørsu hiñ heilage Johañes
Skijrare lijdur j Eydemørkuñe Skort z
Hungur/ Siadu huørsu Postulans Pet
urs Lijkame/ er a Krossenum wtþaneñ/
Siadu huørsu Postuleñ Jacob verdur
ad rietta Halseñ vnder Suerd Herodis.
Siadu huørsu su signada Mooder End
urlausnarans Maria / verdur ad standa
vnder Krosse sijns Hiartans Sonar.

Eins er þui hattad vm Christnena/
sem er andleg Mooder Herrans Christi
Nun verdur og eirneñ vnder Krossenum
ad standa hier j Heime/ og þa beysku Hi

 arta

artasørg/med þeirre ſignudu Mey Mar
ia/ ad ſmacka og reina/ lÿka ſuo ſem eirn
eigen adrer Guds Utvalder Aſtviner/
ſem a fyrre Tÿmunum Lifdu. Um ſlÿ
ka Kroſſberendur ſÿna/ Huort þad eru
helldur Kallar eda Kuinur/ ſeiger ſialſ
ur Herran Chriſtur ſo. Sæler erud þier
nær ed Meñerner opſakia ydur vegna
mÿns Nafns/ þuiad ſo giørdu þeir Spa
moñunum. O huad Dyrdlegur Hlutur
er Opſokn og Moitkaſt Verallдarennar/
ſem gioter oſſ ſamlÿka Spamoñunum/
Poſtulunum/ og øllum ødrum Guds Ut.
vøldum/ Ja/ jafnvel ſialfum Endurla
uſnaranum Jeſu Chriſto? Lætum oſſ þui
viliuglega lÿda nockud/ med þeim ſem
Kroſſ og Hormungar bera. Lætum oſſ
Kroſſþeſtaſt med þeim hinum Kroſſþeſtu
ſo vier ſÿdan verdum Tignader med þe
im Tignudu/ og Dyrdleger med þeim
Dyrdlegu ad Eymdunum yferſtodnum.
Sa ſem vill vera riett og ſañarlegt Gu
ds Barn/ a ecke ad læta ſier þungt þikia
ad hafa ſomu Kior og Koſte i Veralld
ene/ ſo ſem oñur good Guds Børn/ og
hans

hans andleg Systkin hafa ædur fyrre ha
ft/ Þui so hliodar þad gamla Ordtæke/
ad lijker Brædur meige lijkt Kal svpa.
Sie so Sala mijn/ þu vilter vera riettur
Guds Erfinge/ þa taktu feigens Hende
vid heilum og ofkiertum Arfe þeim sem
han̄ hefur giefed og epterlæted sijnum
Oskabornum. Nu er þad ollum vitanle
gt/ ad j þeñañ Arfeñ vill hañ þaug ta
ke ecke alleinasta Fognud og Vegsemd
þess eilijfa Lijfsins/ helldur og eirneñ Nr
ygd og Motlæte þessara stundlegu Lijf
daga/ þuiad Gud hirter huorn þañ Son
sem hañ ad sier tekur. Hañ straffar sijna
hier j Heime/ vppa þ hñ væge þeim a hi
nū sijdasta z strangasta Dome/ z læte
eckert Afelle/ nie eilijfra Pijsla wrskurd
yfer þa ganga. Hñ lætur þui Þianingar
nar fiolga j þessu Lijfe/ ad þess fleire z
meire verde Verdlauneñ/ j þui okomna
Lijfenu. Þar fyrer er ecke so ad reikna
til Auknings stundlegra Hormunga/ so
sem til þess veglega Viduranka Eilijfra
Verdlauna a Himnum/ nær sem Moot
læted ædpnur.

Z iij Nug

Hugleid z skoda gaumgiæfelega Sa la myn/ huorneñ vared z hœttad sie Kr offburde Guds Barna. Hañ vppsiytur wr Hiørtunum allar Tauger og Natur/ þeirrar elsku sem Madurinñ af siñe veyk re Nattuuru/ hefur til forgængelegra Hl uta j þessare Verolldu/ og aptur j stadinñ þa mer hañ jñ j vor Hiørtu/ oforgeing elegu Sæde Guds Otta/ og riettre elsku til Guds lifanda. Krossenñ lætur oss þa Ama og Leida a Verolldeñe og heñar Hættum/ eñ Epterlængan z Þreyging eptier þui sem þar er vppe a Himnum. Þess meir sem Holldet deydest/ þess meir þa Endurlifnar og Endurnyast And eñ. Þegar Verolldinñ tekur til ad smackast oss beyskt og swrt/ þa tekur Ch ristur og hans Naad/ til ad smacka oss þess sœtara.

Morgu og myklu kiemur Gud til leid ar med Krossenum/ þuiad fyrst kallar hañ oss med Motgangenum/ til Angurs og Trega fyrer giordar Synder. Þar næst kallar hañ oss med Motgangenum/ til sañarlegs Guds Otta z Bæna akalls. J þrid

J þridia lage kallar hañ oss med Krosse og Motgange þessa Lijfs/ til riettrar po lenmæde og Vmburdarlyndes. Lucum þar fyrer vorum Hiartans Dyrum opp/ þegar hañ a þær klappar med Krossens Naffre og Plustum suo til þess sem Drot tiñ vill þar jñe kieña/ og Predika j sijnu eigen Mustere. Þad ytra Krossens og Mootgangsins Alit/ er miøg audvirde legt og forackfanlegt fyrer Heimenum/ og fyrer Holldlegum Augum þess ytra Mañsins/ Eñ samt er þad þo Vegsam legt fyrer Gude/og fyrer andlegum Au gum þess jnnra Mañsins/ Huad var for acktanlegra eda suꝛvirdelegra fyrer Au gum Gydingaña/ eñ Kuøl og Pijna Je su Christi? Eñ þar huert a moote/ Hu ad var Dyrdlegra z ædra fyrer Augum þess lifanda Guds/ enn su sama Pijna/ þutað hun var af Gude reiknud fyrer æ nægianlegañ Bitaling forer allar Ver alldareñar Synder. So kiedur þad z so opt og ostalldañ/ ad sa hiñ Riettlæte lijdur margar Þrengingar/ Kross og Mædu/ Jæa/ deyr j burt vm sijder/ og ein

 geñ

geñ giefur þar gaum ad/edur lætur sier þar vmhugad vera/ Sannt og ædur/ þa eru þuilijkra Guds wtvaldra mañа þia ningar/ z þeirra Daude dyrmætt j Aug lite Drottins. Christneñ sem er Jesu blessud Brwdur/ hun er dock Alits hid ytra fyrer sokum Ofurhita og Bruna Eymdaña og Ofsoknaña/ Eñ hid jñra er hun harla frijd/ og med liomande Feg urd/ vegna þeirrar Huggunar/ sem hun hefur j sijnum Gude. Guds Christne/ edur og so huør og ein Christens Mans Sal/ er so sem sa Alldengardur/ huør ed vmgyrtur er allt vm kring med einum hærum Garde/ og apturluckur med Læ stu Hlide/ þar fyrer kañ eingeñ ad sia hans Fegurd edur Bloom/ vtan sa sem þar er sialfur jñañ fyrer(þad er sa sem sialfur er eitt riettrwad Guds Barn) Alldrei þiñum vær so fyllelega/ eda full komlega til heilags Anda Huggunar hid jñra/ so sem þegar Hollded þiakast hid ytra. Ef ad Elska til Veralldareñ ar byr j oss/ þa fær su Elskañ sem vier ei gum til Guds ad hafa/ eckert Rwm þar

jnne

ſſie. Tak til Dæmes/ eþ eitt Kier væ
re pullt aþ Vatne/ Huorneñ kyñer þu
þad ſama ad pylla af Vijne/ vtañ Vat
nenu være ædur þyrre af þui ſteypt? Ei
ns er þui eirneñ hættad/ eþ vier vilium
vppfyllaſt af Elſku og Kiærleika til Gu
ds/ þa verdum vier ædur fyrre j burtu ad
hella Veralldarennar Elſku/ af vorum
Hiørtum/ Þui er nu þa þeſſe Tilgang
ur Guds vors Himneſka Fodurs/ þegar
hañ nidurkiefur og nidurſlær j vorum
Hiørtum/ Elſku til þeſſa Heims med
Kroſſe og Motgange/ ad hañ vill þar
ſkule Rwm giefaſt ſiñe elſku.

Ad auk þeſſa/ þa framknyr og þreing
er Kroſſeñ Mañenum til ad ækalla ſiñ
Gud z ſkapara/ af Hiarta/ z er ſo ordſøk
til margra godra Mañdygda. Þegar ve
ſtanſtormuriñ blæs vppa Alldengardiñ
Chriſti(þ er þegar Opſokner z Motga
ngz/ ſtrijder vppa Chriſtnena)þa reña z
driupa hans Balſams dropar j þ er/ þa
aukaſt heñ dygder/ hvïar ad eru ſætlega
jlmande þ Gude almættugū/ Sa elſkule
ge edla Brwdguwe Sælareñar/ Hañ er
Z iiij bæde

bæde huſtur og riodur/ Huſtur er hañ/ af Sakleiſenu/ Eñ riodur aþ Pijnuñe/ Þar fyrer/ ef hans elſkuleg Brwdur a ad lijkiaſt honum/ og verda biort j mañ dygdunum/ þa verdur hun ædur fyrre ad verda raudleit j Pijſlunum/ So kañ nu Guds Millde og Myſkunſeme ad lata pramfliota Vidſmiør og Hunang/ af þe irre Hørdu Hellu Motlætingañа. So kañ Fader Myſkunſemdañа ad lata vppvaxa þann Ilmſæta Avøxt eilijf rar Vegſemdar/ af þeirre beyſku Root Hørmungañа. Huørs Avaxtar ad ney ta/ oſſ veite ſa hiñ ſame eilijfe Millde og Almætuge Gud/ Amen.

# XLII

## Huørneñ Madur ſkule yþervi ña þa Freiſting/ þegar Dioþulliñ vill ſetia hønũ þyrer ſiooner/ ad omøgu legt ſie ad hñ giete ſkødugur ſtad ed j Guds Otta til æfeloka.

Þu

HVar hifi Blessade og allra Helga
ste Herra/ Herra Jesu/ Astwdlege
Brwdgume minnar Sælar/ Nær
skal sa Fagnadar tijmen yfer mig koma/
a huorium ad eg meige jnleidast af þier
j ockar Brwdkaups Fognud? Eg er j
añarlegu Lande og so sem j Utlegd kom
in fra þier. Eñ þo sem ædur trwe eg
stadfastlega/ ad snarlega mune þar ko
ma/ og þess mune ecke længt ad bijda/ ad
eg aflegge Hreyse þessa Daudlega Lijk
kama/ og verde jnleiddur fyrer þitt ble
ssada og blijda Auglit j Dyrdena.

Eg er hræddur og Uggande vm mig
þuiad eg ber miñ Fiesiood (þad er truna)
j veykum Leirkierum/ þad er j Syndu
hættre Sælu og Lijkama. Skilninge
miñar Sælar er hætt vid Villuñe/ þui
ad hañ er til heñar hneygdur/ Eñ Vil
ianum er hætt vid ad sampþyckia þad hid
vonda/ til huørs hañ er og framþws/
Huar fyrer miñ Ande er ecke so reidubw
eñ sem skyllde til þijns Otta. Eñ Holld
id er þo jafnañ veykt. Syndeñ tekur
mig fangeñ/ og Løgmaal miña Lima str

 ijder

ſider j mote Logmaale mijns Hugſkots.
Eg er hrædður og Vggande vm mig/
þuiað ſa Slæge Dioful og Andſkote
ſitur vm ad nä mijnum Fieſtood fra
mier/Hans Slægder eru margvijſlegar/
Hans Grimd og Akieþð til að ſkaða/
hin Heiptuglegaſta og fær þui mykla ji
lu orkað. Hañ ſueik og fellde Adam j
Paradijs/Judam j næveru Chriſti/ og
j hans Skoola. Huorneñ kañ eg þa au
mur og veykur vera Vggalaus fyrer ha
ns Suikum og Vmſatre? Eg er j Ot
ta og Skielþingu ſtaddur/af þui eg verd
j Heimenū að vmgangaſt/huar þo er al
lur fullr med Hrecke z Klæke. Heimſins
Vellyſtingar locka mig til ſijn/ Eñ mot
læted ſem a Heima a vegum Drottins/
þæler mig fra ſier. Avũ mig auma mañ
eſkiu/ Huorneñ ſkal eg hiedañ komaſt kl
aklauſt? Allur Heimureñ er fullur med
Snorur/ Huorneñ ſkal eg kuña Rond
vid ad reiſa/ med þui bæde þad blijða og
ſtrijða legſt ſo j Veigeñ fyrer mig z mier
til Hroſunar? Eg er j Otta z Skielþin
gu ſtaddur/ þuiað med þui eg veit að eg
þigg

þigg af Drottne/ bæde viliañ til þess goo da/ z so eirneñ Matt z Megn til ad fr amkuæma þ ed gooda/ Þa er eg z kuñda nde fyrer/ ad eg mune meiga med Athu galeyse og Hyrduleyse mijnu/ Neyda miñ Gud til ad taka fra mier aptur þañ goo da Viliañ/ sem hañ hefur mier giefed. Eg fer ecke riett med Fyrergiefning syn dañna/ og þui er eg hrædдur ad Gud mu ne epter sijnum Riettferduga Doome/ ta ka þad fra mier verduglega/ sem eg hefe brwkad og med fared Overduglega/ Eg er kuñdande fyrer/ ad eg meige af mijn um Gude yfergiefeñ verda/ huorn eg he fe so opt og tijdum yfergiefed/ sijdañ hañ took mig fyrst j Satt vid sig. Eg kuelst j mijnu Hiarta/ þegar eg athuga/ ad þess stærre mune verda og þyngre Doom uriñ/ sem Gafur DROTTins eru mier veittar fleire og stærre/ sie suo eg fare med þær jlla og Overduglega. Hier j moote samt sem ædur/ þa huggar mig og hughreyster su Oþriotanlega Guds Myskunseme/ og kiemur mier til stødug lega ad Treysta DROTTne mijnum

þar

þar vm/ ad so sem hn̄ hefur giefed mier Viliañ til þess gooda/ So mune hañ og einneñ giefa mier siñ Nꜳdar styrk/ til ad framkuꜳma og fullgiøra/ þañ sama goo da Viliañ/ Þui hañ er sa Gud/ sem stad faslur og Oumbreitanlegur er/ Hans Myskun hefur mier ætijd hingad til stad fost og obrygdul vered/ mun mier og ecke helldur vm alla Eilijfd bregdast. Sa gr undvollur til miñar Sꜳluhialpar/ sem Gud hefur lagt/ mun stødugur standa j þui ad hañ er j hans Hiarta bygdur og lagdur/ huar ad eingeñ ofadfeste/ eingiñ siñaskipte og eingiñ Vmbreiting er. Jꜳ sa Grundvollurin miñar Sꜳluhialpar mun vissilega stødugur standa/ þui hañ er stadfastur og sterkur giørdur med Gu ds Sonar Jesu Bloode/ huert blessad Blood/ alltijd talar mijnu Mꜳle og af sakar mig fyrer Velldesstoole Drottins. Jꜳ/ sa Grundvollur mun eflaust stødu gur standa/ med þui hañ er med obrygd anlegum Sacramentañа Jñsiglum stad festur. Ef eg vænte mier hiñar minstu Sꜳlarheillar edur Velferdar hia sialf um

um mier/ þa mætte eg visselega eꝼa vm
mijna Sæluhialp/ Enn nu er allt mitt
Riettlæte/og øll mijn Sæluhialpar von
j Herranum Jesu Christo/ og kañ mer
þui ecke ad bregdast/ huar fyrer eg vil
vera okuijdeñ. Hefde eg af sialfs mijns
eigeñ Vilia/ Krapte eda skilninge snued
mer fyrst til Christū/ þa mætte eg ottast
ad sa miñ Vilie/ Kraptur og Skilning
ur mætte aptur vmsnwast/ og ad honum
vmsnwnum mætte eg missa aptur Chris
tum/ Eñ nu er þessu længtum ødruvijs
hattad/ Þuiad Christur miñ fañ mig/
þa eg kuñe ecke hans ad leita/ og þui
mun hañ ecke læta mig aptur glatast/
vpp fra þui hañ hefur mig einusiñe fun
ded/ þui ecke er honum nu ohægra ad ge
yma mig fundeñ/ eñ ad fiña mig glatad
añ. Sa hiñ same/ sem mig hefur leidt
wr Daudans skugga til Lifsins/ hann
mun ecke læta mig hrekiast til Myrkra
ña aptur ad nyu/ Vilie z Hiartalag Dr
ottins er alltijd hid sama og vmbreytest
ecke af ñer til/ Huorke j þui/ ad kalla oss
til sijns Nædar Rijkis/ nie j þui/ ad gte

þa oss allra handa godar giafer/ eñ Gud giæfe eg være so stodugur og ovmbreyt anlegur j þui enu gooda/ ad miñu leite til. Sa goode Fiestoodur er alltijd til rei du af Hende Drottins/ Eñ Trwar høn diñ miñ er stundum veyk og Vanmatt ug vid ad taka/ samt sem ædur mun eg med þessare veyku Trwar Hende/ gieta teked a mote Christo/ og hñ ad mier vast æd/ þui so sem hñ hefur Nædarsamlega virdst ad læta mig slæ sig og þeckia/ j sij num Ordum og Fyrerheitum/ suo mun hañ og so Nædarsamlega mier þad vei ta/ ad eg giete mier vid hans Ord z Fyr erheit med fastre og stodugre trw halld ed. Þessa Trwna skal eg æstunda ad Brynia og styrkua giora/ med minne alvarlegre z jduglegre Bæn/ z skal so all drei sleppa Drottne wt af miñu Hiarta ns Herberge/ þar til eg hefe Sæluhialp ena olldungis feinged og odlast.

Kraptur Drottins er so mykell og mæ ttugur/ ad hañ gietur hæglega geymt z sparad mig til eilijfrar Sæluhialpar/ Þar fyrer/ þott miñ eigeñ veykleike hrel se

le mig/ z giøre mig j hugasamañ vm mij na Saalar Velferd/ þa Nughreyster mig langtum þramar Kraptur Drottins/ huør ed sijna þulla framkuæmd og Verkan/ hefur j mijnum veykleika. Nañ hiñ same mun mig styrkia/ af huøriñ all ur Trwareñar styrkleike kiemur. Nædiñ Drottins Nuggar mig/ eñ miñ Overdugleike angrar mig. Eñ a mote þeirre an gran set eg þad/ ad ef eg være verdugur Nædar/ þa være su Næd/ ecke Næd/ helldur Verdkaup/ þui þad sem þ Verka fia þorþienustu verdur giefed/ þad verdur ecke giefed af Nædeñe/ þui Næd er ecke næd/ vtan hun veitest alldeilis oforskull dad/ Þar fyrer vil eg reña augum trwar eñar fra mijnum Overdugleika/ z til Drottins Nædar og Myskunar sem þeim overdugu virdtest ad biarga/ Þesse Næd iñ Drottins leidrietter fyrer mier þad sm̃ afvega sleikar/ hun bæter a þad sem brestur/ hun afmæer þad sem a verdur. Huad sem Næd Drottins vill mier ecke tilreikna/ þad er so s̄ þ hefde alldrei af mī er vered framed/ so er þa oll mijn Saalar

Neill

Heill af Drottne alleina/ og kan þu ecke annars/ enn stødug ad blyffa Afenlega/ A M E N.

## XLIII
## Um Daglega Umþeinking Daudans.

MEntu Christin Manneskia/ ætijd og a huørre stundu epter Daudanum/ þuiad han vm situr þig a huørre stundu. Þa þu vppstendur ad Morgne Dags/ þa þeinktu ad skie meige/ ad þesse sie seinaste Dagur þinn Lijfstunda. Ad Kuollde þa þu geingur til Huijldar/ þa þeinktu ad skie meige/ ad þetta meige vera þad sijdasta Kuølld þinna Lijfdaga hier j Heime/ og ad su Nott sem j Hønd fer/ meige vera þijn sijdasta. Huad sem þu giører/ huad sem þu aformar/ og þier fyrer Hendur tekur ad giøra/ eda adhafast/ þa hyradu vm fyrer þier/ huort þu munder þad vilia giøra eda adhafast/ ef þu ætter

ætter samstundis ad dega/ og koma fyr
er Guds Domstool. Þu skallt meina/ ad
þo þu hyxer ei om Daudañ/ þa mune
hañ ei siþdur nælgast þig samt sem ædur
eda ad Daudeñ mune þess pliotara koma
ẽ þu hyxar vm þig optar. O nei/ Huørt
helldur þu hugsar vm Daudañ edur ei/
Huørt þu talar vm hañ edur ei/ þa hææn
ger hañ þier alltijd yþer Nøfde/ og næl
gast ætijd meir og meir/ stund epter stun
du. Lijþed er þier þeinged til Læns/ enn
ecke til eignar Rææda. Þier var med þui
fororde leift ad ganga jñ j þetta stundle
ga Lijf/ ad þu skyllder wt þadan aptur
ganga og fra þui hverþa/ nær sem þu
yrder kalladur. Þu komst nææken j þeñ
añ Heim/ nææken skilur þu vid hañ apt
ur/ Þetta Lijf er so sem ein Vegferdar reÿ
sa/ þegar þu heþur leinge framhallded
Ferdeñe/ þa kiemur þar ad vm siþder/ ad
þu verdur ad snwa heim j Veg aptur/
þangad sem Heimeled er/ Þu ert Leigu
lide/ sem vm stundar saker skallt bwa hi
er a Jørduñe/ eñ ecke ertu Jardareñar
æfenlegur Eignar herra edur Lands Dr

 ottiñ

vikiñ. Nuradu vm pyrer þier/ huørt þu
ferdast/edur huørt þijn Leid byriar a hu
ørre stundu/ J þeirre Meiningu forum
vier villt/ ad vier ætlum vier munum de
ya j þeim seinustu Andar slitrum/ þui
ef vier athugum riett/ þa deyium vier a
huørium Deige/ a huørre Eyckt/ a hu
øriu Augnablike/ þui þess meir sem eykst
vid vora Lijfdaga/ þess meir kortast þr.
Þess leingur sem vier lifum/ þess miña er
epter olifad. Þess fleire Dagar sem auk
ast vid vorar Lijfstunder/ Þess færre eru
epter. Vær follum ecke hastarlega j Da
udañ/ helldur lijdur og færest smamsam
añ ad þeim Tijmans Puncte og stundu
sem Gud hefur æsett. Þetta vort Lijf/
edur Lijfstunder/ eru so sem ein Leid/ edr
Vegferdar Reisa/ a huørre Madur ver
dur Daglega nockud ad ferdast z nockru
af ad liuka. Oss synest sem onguer Nlu
ter sieu fiærlægare sijn a mille/ eñ Lijf
og Daude/ Þar þo onguer tueir Nluter
eru huør ødrum nælægare/ eñ þsser eru/
Þess meir sem sæker a Æfena/ þess me
ir þokar ad Daudanum. J þessu Lijfe
fer

fer oss mäl̃ka og siglinga Monum/ Pad skiedur opt fyrer þeim/ ad adur eñ þeir vita ap/ þa er þeirra Reisa endud/ z vm der þad Land komed sem þeir sler til ætla. Eins fer oss tijtt og opt/ adur eñ vier ap vitum/ þa er Daudeñ komeñ/ þuiad hu ad sem hellst vier giørum edur adhøfu nst/ Huørt vier etum edur dreckum/ Hu ort vier vøkum edur sopum/ þa erũ vier so sem a sijfelldu Hlaupe til Daudans/ z nalægiunst æ meir z meir. Marger ha fa sijnar Lijpstunder wtendad/ medañ þr hafa verid j vnisvisũ ad wtvega sier Lijf sins Atvinnu til seirne Tijmana. Eing eñ tekur mz glødu Giede mote Daudan um/ vtañ sa ad eins/ s sig hefr leinge vid hm̃ bued/ Deydu fra þijnũ jlla vilia hier j þessu Lijfe/ z þa muntu lifa Gude j Da udanum. Lattu Synder z Leste deya fra þier/ adur eñ þu sialfur deyr/ Giædu til ad sa gamle Adam deye j þiñe Nattúru a medañ þu lifer/ So mun Christur li fa j þier þa þu deyr/ Sa ytre Madureñ skyllde allrijd j þessu Lijfe poreydast og fordiarfast/ þa mun j Daudanum ed

 ut

ar j Andlætenu/ Endurnyast sa jnnre Madurin.

Daudeñ burtslitur og fører Mañ fra stundlegum z sliottlijdande Tijmum/ jñ til Eilijfdareñar. Hvad þangad sem Tried fellur/ þar liggur þ/ O huad kost giæfelega ættum vier nu þa/ ad þeinkia vm Daudans Tijma og stundu. Tijma ener lijda og endast/eñ Eilijfdeñ sem all drei tekur enda kiemur a epter. Bw þig þui vid Eilijfdeñe/ nu medañ Tijmenn varer.

Strax a vorre Daudastundu verdur þ alyckfad og wtkliad/ huilijker vier skuluñ verda/ vm alla Eilijfd/ huort vier skuluñ vera j eilijfre Sælu/ edur eilijfum Kuol um. A þui Augnablike Daudastundar eñar/ þa añad huort eignunst vier eilijfa Farsælld edur missum hana/ Siaadu þar fyrer til mijn Saal/ med huad storre Vm hyggiu þier ber ad bwast vid þeirre stun du Daudans. Ef þu huxar vm/ ad þu verdur ad deya/ þar med er þier hægast ad foracta/og lijtels virda/ allt þad sem j Heimenum er/ Hugsadu vm fyrer þier/

huor

huørsu ad Augu þijn mune formyrkuast
og oskygn verda j Daudanum/ z þar mz
mun þier hægra verda/ ad snua þeim fra
girnd fanytra hluta/ Hugadu vm huørn
eñ þijn Eyru munu verda þung heyrd j
Daudanum/ og med þeim Þanka kantu
hæglegar ad byrgia þaug fyrer Gudløst
un/ Kieskne og Klæme. Hugsadu vm
huørneñ Tungañ mune hiadna z mætt
laus verda j Daudanum/ og su Ihugan
mun koma þier til ad taka betur vara a
Ordum þiñar Tungu/ suo hun tale ecke
illt. Set þier fyrer Sioner þañ Sueita
og Harmkuæle sem Mañeskiañ verdur
ad þola/ þa hun deyr/ og so mun þier sijn
ast lijtels verdar allar Heimsins Vellyst
ingar. Set þier fyrer sioner/ huørsu ma
dur fer nakeñ wr þessum Heime/ og mun
tu med betra giede gieta Fatæktena vm
bored j þessu Lijfe. Hugleid þu huørneñ
allur Lijkameñ afmyndast og ofegrast j
Daudanum/ z so muntu hæglegar gieta
lijtels acktad allt Veralldareñar Skart
og Prial. Athugadu þad særa Sælar
eñar Kuein og Vein/ þa hun er suo sem

 naud

naudug dreigeñ vt af Lijkamañ/og þa muntu þess kostgiæfelegar varast Synd er z Suivirdingar. Hugsadu vm þa Rolnan/sem þu hefur þier ad vænta/ epter þiñ Dauda/ og so muntu haglegar þar med gieta dempad Holldsins Dramb og metnad. Huxa þu vm huorsu allar skiepnur yfergiefa þig j Daudanum/og lærdu þar af ad snua þijnu Hiarta z þiñe elsku fra øllum ødrum Hlutum/ og til þijns Skapara alleina. Hugleid þu huorsu Daudeñ sier skarpt epter/ ad þu gieter ecke hid einasta med þier teked j Grøfena/og lær þar af ad forackta þessa Heims Audæfe og Rijkedæme.

Huør sem hier j þessu Lijfe deyder og myrder sijna Sal/ med Daglegum Syndaña Athøfnum/ hañ fer j giegnum þeñañ stundlega Dauda jñ til þess eilijfa Dauda og Kualaña. Eingeñ kiemst sa til þess eilijfa Lijfsins/ sem ecke hefur hier j þessu Lijfe vppbyriad ad lifa j Gude. Vilier þu lifa midt j Daudanum/ þa kostadu Kapps a ad vera hier jñplant adur Christo/med riettre og sañre Trw.

þeink

Þeinktu til Daudans a huørre ſtun du/ þui Daudenn vænter þijn til ſijn a huørre Stundu. Vær berum Daudañ ævallt med oſſ j vorre Nætturu/ huørt vier førum/vegna þeſſ/vier berum Syn dena med oſſ/ Þuiad Daudenn er Verd laun Syndarennar/ Vilier þu nu ad Daudenn ſkule þier ecke beyſkur verda/ þa heyrdu Guds Ord/og legg þaug vp pa Hiartad/ og trw þeim ſtøduglega.

Trweñ ſamteinger oſſ ſo vid Chriſtum ad hun giører oſſ eitt med hønum/ og giører af Chriſto og oſſ/ ſuo ſem eina Mañeſkiu.

Þeir ſem nu ſo eru j Chriſto/ og eitt med hønum fyrer Trwna/ þeir kuña þe im eilijfa Daudanum ecke ad deya/ þui ad Chriſtur er þeirra Lijf. Sa ſem hell dur ſig med Truñe vid Gud ſiñ/ hañ ver dur eirn Ande med hønum(ſo ſem Skri fteñ vottar)og þui kañ ſa hiñ Trwade ecke ad deya ad eilijfu/ þuiad Ande Guds er hans Lijf.

Iſraels Foolk ferdadeſt j giegnum Ra uda Hafed til þeſſ fyrerheitna Landſins.

 Eñ

Eñ Pharao og hans Herlid drucknade j Þui sama Hafe/ Eins er Daude þeir ra Gudhræddu/ so sem Jñgangur til þess eilijfa Lijfsins/ og suo sem Dyr til Para dijsar. Eñ Daude þeirra jllu og Ogud legu er onguañeigiñ ending stundlegra Eymda/ Helldur er hañ so sem eirn Nlec kur/ sem saman teingslar þær eilijfu Ey mder vid þær stundlegu/ og þær epterkom ande/ vid þær yferstødnu. Þeir sem so de ya jlla/ þeir frañfara fra þeim fyrsta Daudanum til þess añars Daudans. So er nækuæmleg samteinging a millū Ch ристi/ og hūs trwadra Maña/ ad hun kañ ecke ad riufast nie sundurslitna j sialfum Daudanum. Mitt j Daudans stærstu Dimu liomar fyrer þeirra Sælar Aug um/ þad skiæra Lioos Gudlegrar Myst unar og Nadar. A þeirre Hættusomu Daudans Leid/ sender Gud sijnum Þien urum/ þa heilogu Eingla til Verndar og Leidarvijsers. Lijkamer þeirra Gud hrædду eru Mustere heilags Anda/ og Þui mun sa goode heilage Ande ecke ley fa/ ad hans Mustere nidurbriotest suo j

Daud

Daudanum/ad þad eige ecke Vppriſuñ at og Vppbyggingareñar aptur von-Guds Ord er eitt oforgeingelegt og Gud domlegt Sæde/ þar fyrer kañ Daudenn þad ecke wtſlockua/ helldur hylſt þad og dylſt j Hiørtum þeirra Gudhræddu/ og a ſijnum Tijma/ mun þad þaug Hiørt un(j huørium þad er þaled og følged) en durlijfga og af Daudanum vppvekia til Lijfſins/ A M E N.

## XLIV
## Huggun fyrer þa ſem
### miſſa ſijna aſtvine.

HEinftu Chriſteñ Saala til þijns gooda Endurlauſnara Jeſu/ z þa nnun þier ecke kuña ad ofbioda Da udans Ognan. Grimd Daudans er ad ſoñu mykel og mattug til ad hrella/ eñ langtum meire er Millde þijns Endur lauſnara/ og mektugre til ad hugga. Jſraels Lijdur gat ecke drucked Vatned aff Bruñenum Meara j Eydemorkuñe

þ v fyrer

fyrer Beyskleika Batnsins/ Enn sem Moyses epter Guds avijsan/ kastade Trienu j Vatned/ þa vard Vatned sætt og ean Beyskiu/ Eins er þui og so vared/ ef þu þikest j þijnu Hiarta ecke gieta stadest Beiskleika Daudans/ þa vijsar Gud þier til þess Triesins/ sem þeirre Beyskiu Daudans hefur vmsnwed j Sætleika. Þetta Tried er sa edla Kuistur af Root Jesse vppvaxen/ sem er Herran Jesus Christus sialfur/ huer ed soddan Sal leiks Krapt j sier hefur/ ad ef nockur va rdveiter hans Ord/ Sa hin̄ same kan̄ ecke ad smacka Daudan̄ eilijflega. Þetta Lijf er fullt Þyngsla og Þienninga/ og þui ødlast þeir stoora Huijld z lietter/ s̄ fyrer Daudan̄ burt sofna fra þessu Lijfe. Þad ma so reiknast ad alldrei deye nock ur Riettchristen̄ (þuiad hans Sal lifer hia Gude) helldur deye alleinasta hans Synder og Motlætingar. Þetta sem oss syness Daude/ er ecke Daude/ helldur ein Vegferdar Reisa/ og þo soddan̄ veg ferdar Reisa/ sem ecke ma reiknast burt før/ helldur apturkoma til þess rietta He

imele

imelesins. Ecke missum vier vora Astvi
ne þa þeir deyiq/ helldur so sem ferdast
þeir vndan vppa Veigeñ/ þangad sem
vier jñan skams komum a epter. Þeirra
Daude mau ecke reiknast Vndergangur/
helldur Vppgangur/ Ecke burtþør/ he
lldur Vndanþør. Daude Guds Barna
er ein Fæding til eilijfs Lijfs/ og þui er
hñ onguañeigeñ Tion/ helldur Abate.
Þad vorer Astviner deya j burt/ Huad er
þ añad/ eñ þeir giefa þa vpp ad syndga
Þeir giefa vpp ad hrekiast z velkiast j þe
ssu Heime/ þeir giefa vpp ad lijda eymd
z Anaud. Þad vorer astviner deya j sa
ñre og stodugre Trw/ Huad er þad añad
eñ þ/ ad þeir þerdast j burt wr skugga
studlegs Lijfs/ z koma j þañ fegurdar Li
oma eilijfs lijfs/ fra Sorgeñe til Fagna
darins/ fra Mañunū til Guds. Þessu lij
ke mau vel lijkia vid eina Sigling/ eñ En
ding. Lijþsins edur Daudans/ vid eina
gooda og Nattulausa Høfn/ og þui er
ecke tilbærelegt/ ad vier ofmiog hormum
þott vorer Viner og Nauungar j burt de
yi/ helldur ættum vier ad samfagna med
Ɀ 3 þeim

þeim/ ad þeir eru yþer það Nættusama
Naf Lijfdagaña/ jñ j þa goodu og vgga
lausu Daudans Noþn komner. Þessu
Lijfe maa vel lijkia vid eina Dyblyssu/ ed
ur Fangelses Hws/ Eñ Daudanum
vid Frelse edur Vtfararleife aþ þui Fa
ngelse/ og þui bidur sa goode gamle Si
meon so/ a mote sijnu Andlaate/ seigiande
Laattu nu Drottiñ lausañ Þion þiñ j Fr
ide/ edur gief nu Þione þijnum Vtfarar
leife. Vm wtfararleife edur Lausn bidur
hier sa goode gamle Guds Mañ/ af þui
hañ fiñur og formerker sig j daudlegum
Lijkama jñelucktan/ so sem j ødru Fang
else/ Þar þyrer ættum vier ad samfagna
og glediast med vorum Astvinum/ ad þe
ir eru frialser ordner wt af þessare Myr
kua stofuñe/ og eru komner til þess full
komna Frelsis. Postuleñ Paall oskar
sier/ ad hñ meige verda laus/ og lifa med
Drottne. Nier hefur hañ Nugleidt/ hu
orneñ Mañsins auma sal er j þessu Lijfe
so s̄ bundeñ vid þañ daudlega Lijkama/
med einu sterku Þrældooms Bande/ hu
ert band hañ oskar vpp mætte losna fyr
er

er Lijkamlegañ Dauda/ ſo Ondeñ mæt
te verda frij og lifa hia ſijnum DRottne
og Skapara. Skylldum vier þa hrygg
iaſt þar vid/ þegar vorer Aſtviner loſaſt
wr þuilijkum Bøndum/ og fa fyllelegt
Frelſe og Lauſn? O nei j ønguañ Mæ
ta. Nuar til ſkylldum vier taka vppa oſſ
Suart Sorgar Klæde/epter Frafall vo
rra Næunga/ þar þeir hafa Ikladſt
huijtum Fagnadarens Skrwda? Þui ſo
er þad ſkrifad/ad þeim wtvøldu ſieu gief
eñ huijt Klæde/ fyrer ſaker þeirra Mein
leyſis/ og ad Pælmavidur ſie j þeirra
Nøndum/ vegna þeſſ Sigurs ſem þeir
hafa vñed. Þui ſkulum vier þia oſſ mz
Narme og Sorgartaarum/ þar vier vitū
þo/ ad Gud hefur þerrad øll Taar af
þeirra Augum? Þui ſkulum vier auka
oſſ ſialfum Onæd þar med/ad harma vo
ra burtſofnada/ þar þo þeir eru j þuilijk
um Sælldar ſtad/ þar ecke heyreſt þram
ar meir Kuein/ Nørmung edur hroop no
ckurt/ helldr huñlaſt þr þar af ſijnu Er
vide? Þui ſkulum vier kuelia vora Ond
j ofmyklum Narme/ vegna þeirra ſem
nu eru

nu eru j þeirre allra stæstu Glede z Vn
adsemd staddet/ a medal Guds heilagra
Eingla? Þui skulum vier med grætleg
re Roddu hroopa og kueina epter þa/ sm
standa frame fyrer Lambenu/ z syngia
eirn nyan fagnadar Lopsaung/ hafande
Gullegar Hørpur og Streingia Hliod
fære sier j Hondum? Þui skylldum vier
harma þad/ þott þeir hafe vered j burt
kallader wr þessum Heimi/ þar þo þeir
sialþer fagna z glediast s mest þar vt af.

Huad gott og æskelegt sie/ ad skilia vid
þenan Heim/ auijsar Christur j þm Or
dum/ þar hn seiger til sina Lærisueina/
Ef þier elskudud mig/ þa mundu þier gl
ediast þar aþ/ ad eg fer hiedan wr þessu
Lijþe. Lærisueinarner hrygdust þar aþ/
ad Herran Christur sagde þeim fyrer si
na Burtfør wr þessum Heime/ En þar
vppa suarar Christur þeim og seiger/ ad
ef þeir hefdu rietta elsku til sijn/ þa mun
du þeir ecke misvna sier þeirra Farsælu
vmskypta/ ad skilia vid þessa Eymd/ og
jngangá j þa eilijfu Dyrd. Være suo ad
þu værer staddur j Sio eda j Siglingum
og

og þu ſær fyrer ſtorm ꝛ Siafar Olgu/ ſem Skipenu kyſte ad tortyna/ Munder þu ecke giarnañ og feigeñ vilia flyta þier til goodrar Hafnar Hugleid nu og ſia/ huørſu þeſſe Heimur er ſo ſem a fall anda Foot komeñ/ og fer Daglega Da gs meir og meir hrørnãde/ ſo auglioſt er ad ecke mune lǽngt þeſſ ad bijda/ ad hañ med ølluu kollſteypeſt og eydeleggeſt/ þui ſkyllder þu þa ecke þacka Gude þar fyrer og ſamfagna med þijnum Aſtvinum/ ad þeir eru fyrre eñ ſeirna frelſter med einū ſkaplegum Dauda/ vndan þeirre ognar legu hrapan og þui hættuſama Skipbr ote þeſſa Heims/ huørs ecke hefde vered gott ad bijda.

Ȝ huørs Høndū meinar þu ohættara edur betra ad eiga velferd þiña aſtvina/ eñ j høndū Herrans Chriſtiꝭ Ȝ huoriū ſtad meinar þu/ ad Ønd þiña vina ꝛ nær unga kyſſe ohræddara edur vggalauſara ad bwa/ eñ j þui farſæla Paradijſar Ri keꝭ Athuga huad Poſtuleñ ſeiger vm daudañ/ Daudeñ er Abate(ſeiger hñ)jaa ad ſøñu er ꝥ ſtor Abate/ ad hindraſt fra

Synda

Synda Idneſte/ Stoor Abate er þad/ ad ſkilia vid þad verra/ eñ taka j ſtadenn þad betra/ Nafe þiñ Aſtvinur/ ſa j burt ſofnade/ vered þier jñelega Aſtfolgeñ og Niartkiær/ þa ſkal þo og a/ Gud ad vera þier eñ þa langtum Niartkiærare/ huors Vilie þad var/ ad taka þañ þiñ Aſtvin til ſijn/ Sia þu til ad þu reideſt ecke vid Drottiñ/ þui hñ tok eckert añad j burt fra þier/ eñ þad ſem hañ hafde þier ædur giefed/ hañ took ſitt aptur/ eñ þitt ecke/ Lattu þier þad ecke miſlijka/ þott Drottiñ take þad edur heimte aptur/ ſm hañ hafde þier feinged til Laans/ eñ ei til eignar/ Drottiñ er ſa ſem ſier fyrer okomna og yferhangade Olucku. Og þui ſkalltu þeinka/ ad af ſiñe Fodurleg re Forſorgun fyrer þijnum Framlidnum Win/ þa hafe Drottiñ kallad hañ j burtu vppa þad hañ ſkyllde ecke falla/ j þa yferhangande og epterkomande Ohamingiu.

Þeir ſ ſofnader eru j Drottine/ huilla þa ſætlega og vært j ſijnum Grofum/ þe gar þeir ſem epter lifa kueliaſt miog og

onnd

Onnadaſt/ midt j ſijnu Hæſæte og Holl
um ſijns Rijkis. Hafer þu miſt æſtwd
lega Vine/ þa giættu þar ad/ad þu mu
ner fiña þa aptur længtum æſtwdlegre.
Þetta er ſtuttur Tijme/ ſem þu verdur
vid þa ſkileñ/ Eñ ſa Tijmeñ ſem yckar
Funde ſamteinger aptur/ tekur alldrei en
da/ þui þad er ſu bleſſada og Andvarala
uſa Eilijfd/ Þuiad epter obrygdulu Gu
ds Fyrerheite vonum vier z þeſſ /ad vier
munum hiedan fara wr þeſſu Lijfe/ hu
adan nockrer vorer eru vndan oſſ farner/
og vær munum til Lijfſins jñganga/ þar
ſem ad vorer Aſtviner ſkulu oſſ verda þeſſ
Hiartkiærare/ ſem þeir hafa oſſ ædur ver
ed kunugre.

Ja/ vær ſkulum þar ſo elſkaſt jñbyrd
es/ ad þar ſkal alldeilis eingeñ Kuſide ve
ra fyrer nockra Sturlan edur ſundurlyn
de/ þar verdur hiñ ſame Fagnadur z voo
ſamur ſtadur til reidu/ bæde þeim ſem vn
dan eru farner/ og þeim er a epterkoma.
Þar mun huor þeckia ſijna Aſtvine/
Ættmeñ og Næunga/ og med elſkulegū
Vnunarſomum Samrædum/ huor añ

añañ gledia. Þar mun Brooder z ſyſt er til ſamans vera/ Børneñ hia Forelld runum. Og a þuilijkum Glededøgum/ mun eckert Kuølld Endıng giøra.

Alijtu þar ꝧ/ ecke ſo ſkilnadar tijmā þar þijner verda fra þier ſkılder ȷ And lætenu/ ad þu ecke nyklu framar athug er og yferveiger/ tijma Fundaña/ þegar þijner Aſtviner verda þier aptur ſamtein gıer ȷ Vppriſuñe. Nuør ſem ſtadfaſtle ga trwer Vppriſu þeirra Framlidnu/ honum ſyneſt Daudeñ ecke ad vera par añad eñ ein hæg Roſemdar huijld.

Allt huad ȷ Neimenum er þad hefur ȷ ſier og med ſier liooſa Merking z Fyrer myndan Vppriſuñar. Dags liooſed þo þad Daglega gange vnder ad Kuøllde/ þa reñur þad þo æ jafnañ vpp aptur ad næſta Morgne/ Graſed ſem a Vetureñ deyr og følnar/ þad lifnar og Blomgaſt aptur ad Vorenu/ þegar Tijmarner œr ſins/edur Manadaña taka enda/ſo tek ur ſtrax Vpphaf aptur a ødrum nyum tijmū/ Avexterner falla af/ z vaxa ſijdañ aptz ad nyu/ Sædid kañ ecke ad friofgaſt

og

og vaxa vpp aptur wr Jorduñe/ vtan þ
kome þar ødur. Þa Fuglen̄ Phenix he
fur brenñ sig til Osku/ þa lifn" þar eirn
Vngur Fugl aptur wr Oskuñe/ Suo
sæmum vier alla Nlute Endurnyast/ ept
er sijna Foreiding.

Huor vill þar þ trwa ad Gud mune ha
fa til onijtis lated soddan Fyrermyndan
skyna z sinst j nætturlegū Hlutū? Eda
vill noekur meina ad Skiepnuñar nattu
ra/ huor ed soddan Jmynd Vpprisuñar
j sier ber/ hun sie kropugre en̄ Gud/ z los
ad hefur ad vort Holld skyllde epter Dau
dañ vpprijsa? Nañ z ad endurlijfgar Sæ
deskorned j Jorduñe daudt z rotnad/ suo
þu meiger vid þad lifa z þier þad til Ac
viñu haþa j þessu Lijfe/ Skyllde hñ ecke
myklu helldur endurlijfga bæde þig og
þijna/ so þu og þeir meige eilijflega til sa
mans lifa? Gud hefur kallad sijna ekku
anlega jñ j þeirra Suefnherberge/ þar
fyrer misõntu þeim ecke þeirrar Huijld
ar og Roosemdar/ sem þeir haþa/ jñañ
skams mun Vpprisu Tijmen̄ koma.

Þu meinter (kañske) ad þiñ Astvinur

munde meiga verda gagnlegur Limur Guds Christne/ sem strijder hier j þessu Lijfe/ mędur eñ hañ j burtu dœe aþ Verolldeñe/ Eñ Gud villde ad hañ skyllde vera Limur siñar Christne sem Sigrett um hroosar j Himnenum/ Drottiñ vill de þad so haþa/ þar fyrer lættu þier þad z eitneñ vel lijka. Þu þeinkter(kañskie) ad þiñ þramlidne Astvinur/ skyllde hier læra goodar Iþrotter Ment og Speke/. Eñ Gud villde ad hñ skyllde j þm Himneska Hæskoolanū læra þa riettu z soñu Speke sem alleina mæ Speke kallast/ Drottiñ villde þad so hafa/þar þyrer læ ttu þier þad eirneñ lynda og lijka. Þu ponader/kañskie/ ad þiñ Næunge/ sem nu er j burtu sofnadur/munde komast til meire Tignar ædur hañ dœe/ og munde emhuorn tijma meiga sitia a medal Her ra og Hoþdingia/ Eñ Gud villde hafa hañ sitiande a medal þeirra Himnesku Hofdingiaña/ sem eru hans H. Eing lar. Drottiñ villde hafa/ad þad skyllde so skie/þar fyrer lættu þier þad og so lyn da. Þu vonader/kañskie/ad þiñ þramlid

ne

ne Afkvinur munde verda Audugur/ og safna myklu Gotze/ adur en han dæe/ Enn Gud villde han skyllde fa ad verda audugur j Dyrdarennar Rijke. Drottinn villde hafa ad þad skyllde so skie/ þar fyr er lætu þier þad og so vel lynda.

Þu Heilage Herra Gud/ þu tokst þad eina j burt/ sem þu hafder sialfur giefed Sie þitt Nafn lofad og Blessad vm all ar Allder Allda/ Amen.

## XLV
## Vm þann sijdasta Doom.

FAderen dæmer ønguan/ helld ur hefur han giefed Synenum alla Magt og Valld ad dæma. Þar af veit eg vel/ O Herra Jesu Christe/ ad þu muner koma eirn str angur og Riettlætur Doomare/ og mun er auglysa og framleida allra Manna heimuglegar og huldar Athafner/ huørt þad eru helldur Giørder/ Ord edur Þä nkar. Þa mun vpp yfer þeim aumu

 Mann

Mañſkiepnum/ ſem fyrer þañ Doom̃s
wrſkurd koma/ vera eirn vægdarlaus og
ſtrangur Doomare/ Nidur vnder þeim
oped z gapande Helvijte/ j ñañ fyrer j bri
oſtenu nagande Samviſka. Nid ytra ſa
vpptendrade Kualaña Elldur. Vid hæ
gre ſijdu Synndernar med ſiñe hardre a
kløgun. Vid vinſtre Sijdu Diøblarner
med hrædelegre Ognan Kualaña. Þar
munu verä nalæger þeir goodu Einglar
ner ſem veria Syndugum Jñgaungu j
Søkuna/ og þeir jllu Einglarner ſem
þa med ſier hrekia og draga j Kuolena.
Nia huorium ſkal eg þa Skiols og Hæl
is leita/ O Herra Jeſu/ j ſoddañ hættule
gre Þreingingu? Eg ottaſt øll mijn ve
rk og Athaþner/ ſem eg heþe framed/
þui eg veit þu væger ecke þeim ſ ſyndga.
Þar verd eg komeñ midt j millum tijm
ans og Eilijfdareñar/ Tijmeñ hefur þa
enda/ eñ þa er eilijþdeñ epter þyrer Non
dū ſem alldrei kañ ad endaſt. Þeir jllu
Ohreinu Andar heimta/ ad j Lios leideſt
øll þau Jllſkuverk/ ſem epter þra Aeg
gian og Jñbláſtre haþa frameñ vered/
Jaa

Jaa/ þeir tiaa og framtelia huorn eirn ꝫ eirn Glæp/ vppa þad ad þeir nææ Saal vñe j ſiñ Selſkap med ſier til Kualaña/ Þa mun hꝛadna og ad ønguu verda all ur Himenſins Her (þad eru Stiørnur og Himentunglen) og Himnarner ſkal þer munu ſamanvefiaſt/ ſo ſem añad Bl ad/ og allur Himenſins Her mun nidur hrynia/ ſo ſẽ Laufblad hrinur og fellur af Vijntrie/ edur Fijkiutrie/ Sooleñ mun ro dna/ eñ Tungled blikna. Nu ef þeſſe vɇ rk þiña handa/ huør þo eckert jllt hafa giørt/ ſkya ſo ꝫ ſkyla ſier ꝩ̄ þijnu auglite/ Huørneñ fæ eg aumur Syndare ſtadeſt ad koma ꝩ̄ þijna Augſion? Himnar Him naña edur þeir hædſtu Himnar eru ecke æn ſaurgunar j þijnu Auglite/ Huad mũ eg þa aumur vera æn ſaurgunar/ þar eg jñdreck rænglæted ſo ſẽ añad Vatn? Nu ef ſa Riettlaate kañ naumlega holp iñ ad verda/ Huar mun þa ſa hiñ ſyndu ge byrtaſt? Huørt ſkal eg þa ſlya? Hia huørium ſkal eg mier Skiols leita/ nema hia þier minn Herra Jeſu? Þu hinn ſame verdur Doomare/ yþer miñum

 ſynd

Syndum/ sem vegna miña Synda ert a
Krossenum dæmeñ/ Þuiad so seiger Skrif
tiñ/ ad Fadereñ dæme onguañ/ helldur
hafe hañ Synenum giefed allt Valld
til ad Dæma. Fadereñ gaf Synenum al
lt Valld til ad dæma/ eñ Sonuriñ gaf
sig sialfañ j Daudañ/ so hañ þyrfte oss
ecke ad fordæma/ og Fodursins Riettlæ
te yrde samt Fullnægia giørd/ Þui so ste
ndur þad skrifad/ Ad so elskade Gud Hei
meñ/ ad hañ gaf wt siñ eingieteñ Son/
ecke vppa þad ad hañ skyllde fordæma
Heimeñ/ helldur ad Heimuriñ yrde holp
eñ fyrer hañ. Huørneñ kañ þa ad skie/
miñ goode Herra Jesu/ ad þu fordæmer
mig/ þad fyrst þu ert þar til af Fødurn
um sendur/ ad eg skule fyrer þig holpeñ
verda? Þu hefur Fullnægiu giørt Vil
ia þijns Himneska Fødurs/ j øllu/ Huø
rneñ skyllder þu þa/ hans Vilia ecke og
so Fullnægiu giøra/ j þui ad giøra mig
aumañ saluholpeñ/ þ er ecke vilie þijns
Fødurs/ ad eirn af þeim minstu Vesali
ngum fortapest. Nu er eg soddañ eirn
litelmootlegur Vesalingur j þijnu Aug
lite/

lite/ Eirn lijtelmootlegur Besalingur
og eirneñ pyrer mijnu Auglite/ og epter
mijnum Doome/ Þui Huad er eg añad
eñ Dupt og Aska? Þa er eg og eirneñ j
Jdkan Gudrækneñar og Christelegra
Dygda op lijtelmotlegur z eiskins orkan
de Besalingur. Framkuæm þu þar þ a
mier aumu og lijtelmotlegum Besalinge
Bilia þijns Himneska Fodurs. Þu ert
þar til Hingad komiñ/ O goode Jesu/
ad þu skyllder Sæluholped giora þad s
glatad var/ Huorneñ kantu þa ad fordæ
ma pañ sem girneft Sæluholpeñ ad ver
da? Synder mijnar æklaga mig ad søñu
og wtheimta af þiñe Riettuijse eirn str
angañ Doom yþer mier/ Eñ þu hefur
mijnar Synder af mier teked/ og vppa
þig sialpañ lagt. Þu hefr j burtteked sy
nder alls Heimsins/ Huørneñ skylldu þa
mijnar Synder vera epter ordnar? Huør
neñ kantu ad vilia fordæma mig fyrer
mijnar Synder/ þar þu ert þo sialfviliug
ur fyrer þær dæmdr/ so þær yrde kuittar?
Þu ert dæmdr fyrer Synder alls Heims
ins/ Huørneñ skyllder þu þa ecke vera

bæeſt og ſo pyrer mijnar Synder. Nefd
er þu viliad epter ſtrangaſta Riettɛ vid
mig høndla/ Herra Jeſu/ Huad ſkylldɛ
þier þa hafa geingeð til þeſſ ad vilia nid
ur ſtijga af Himnaña Hæſæte/ og jklæð
aſt mijnu Hollde/ og lijda Dauda z Kr
oſſens Pijnu?

Sie ſo ad Dioplarner aſake mig og kr
eþieſt Kuala yfer miñe Sælu/ fyrer þa
ug verk ſem hun hefur epter þeirra Aeg
gian framed/ Þa ſuara eg þar til/ Ad
Hofdinge þeſſa Heims er dæmdur/ z med
þig hefur hñ eckert/ Eñ hafe hñ eckert
med þig/ þa hefur hñ og eckert med mig
ad giøra/ þuiad eg true a þig DRottiñ
miñ/ huar þ þu ert j mier z eg j þier. Kla
ge Diofulleñ mig/ þa klag" hñ þar þiñ
vin/ hñ klagar þar þiñ Broder/ Hñ kla
gar þar Barn og Erþingia þeſſ eilijfa
Himneſka Fødurs/ eñ omøgulegt er ad
þu muner ſtrangañ Doom leggia a þiñ
Vin/ a þiñ Broder/ og þitt Barn.

Sie ſo ad Moyſes æklage mig med ſij
num Doome/ og hroope Bølvan yfer mi
er/ med þui eg hiellt ecke allt þad ſ ſkrif
ad

